**EINAR P. JÓNSSON**

# SÓLHEIMAR

**KVÆÐI**



ÚTGEFANDI: ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA H.F.
REYKJAVÍK

*Ljóð þessi helga ég*

*konu minni,*

*Ingibjörgu Sigurgeirsson-Jónsson*

## VÍSUR INGIBJARGAR

Um veðráttubrigði mig varðar ei neitt,
því vorljós í sál minni er,
sem málar í unaði ástríkis þíns
það allt, sem á dagana ber.
Og húmþokan breytist í hádegisskin
við hjartalagsylinn frá þér.

Hvert vermandi bros þitt og viðkvæmnisorð
sem vordögg um sál mína fer;
við daglega önn verða átökin létt,
því allt saman mynd þína ber.
Um sumar og vetur að síðustu tíð
í sólheimi bý ég með þér.

## VIÐ LEIÐI MÓÐUR MINNAR

(í Brookside).

Kvöldið hljótt. Við leiði móður minnar
myndir kallast fram úr hugans djúpi;
finnst mér eins og heilagt döggfall drjúpi
dánar-reitsins niður hljóðar kinnar.

Hérna margan lífs og liðinn dreymdi, —
logi kvöldsins friðarhofið baðar.
Fleira nam við þennan þögla jaðar
þroskans sál en moldareðlið gleymdi.

Bautasteinar ristir frónskum rúnum
rísa hátt úr sléttu-djúpsins sævi;
geyma þar um margra alda ævi
endurblik frá sögulandsins túnum.

Sorg og gleði líkjast litlu tári,
líkt og dropinn falla í sama hafið.

Leiðið prýða himinheiði vafið
heiðarrós og fjögrablaða smári.

Skammt er bilið milli morgna og nátta,
Mistur-hjúpinn vestræn elding klýfur.
þögul kennd um þankareit minn svífur;
þreyttum syni bráður mál að hátta.

Nóttin hljóð, — í húmi regnið grætur.
Hérna blundar orsök minna ljóða.
Þar, sem mætast moldir allra þjóða,
minningarnar eiga dýpstar rætur.

## HUGSAÐ TIL ÍSLANDS

Brennd í eðli Íslendingsins
útsjá breið og vængjastyrk!
Allt frá dögum útiþingsins
ægiprúð og mikilvirk
skráði Saga ljósum línum
lífs vors höpp og raunaspor, -
felur þó í faðmi sínum
fegri drauma, stærra vor.

Prýðir norðrið máttug móðir,
mikilúðug, tindaglæst;
hafa þar við hraun og glóðir
hjartans stærstu vonir rætzt.
Þar á sál vor sínar rætur,
sína draumlífs messugjörð, —
þar sem himinn heiðrar nætur
hvolfist yfir nýrri jörð.

Hyggjufrjáls og heimatrúuð
hefur þjóðin dafnað bezt.
Megingjörðum mannvits brúuð
munu að lokum sundin flest.
Þjóð, sem fæddi Þorgeir spaka,
þyrnibrautir lítils mat, —
heillar aldar Hungurvaka
hennar táp ei bugað gat.

Þó að hrannað haf oss skilji,
hjartað á sín fornu vé.
Þjóðin ein, — vort afl og vilji
ættjörð vorri helgað sé.
Þá mun bjart til hafs og heiða,
hagsæld fylgja lýðsins önn, —
þá mun röstin reginbreiða
reiknast eins og meðalspönn.

Innst í faðmi fjalla þinna
fyrsta bjarmann dags ég leit.
Fyrstu þreytu fóta minna
fann ég til í eyðisveit.
Styrk og mýkt í málsins hljómi
mér til eyrna sérhvað bar, —
hjartslátt guðs í hverju blómi
heyrði eg jafnan skýrast þar.

Landið helga, heiðra morgna,
hjartað geymir svipinn þinn.
Þar mun æskan endurborna
eiga lengsta drauminn sinn.
Þó að bregðist mörgum minni, —
margir kjósi aðrar dyr,
ítaksvon í eilífðinni
eg af hendi seldi fyr.

## ÍSLAND

Winnipeg, 2. ágúst 1917.

Enn ertu bæði ung og fríð,
Egils og Snorra móðir.
Leikur um vog og laufga hlíð
ljóminn af þinni sögutíð.
Enn eru þínir allir góðir
andlegu sparisjóðir!

Hrein sem norðrið skal hugsun hver
heill þinni yfir vaka.
Þú barst oss kornung á brjóstum þér,
blessaðir það, sem liðið er.
Gafst okkur allt — tókst aldrei til baka, —
um ekkert er þig að saka!

Frjáls skaltu, tigna fóstra mín,
framtíðarþráðinn spinna.
Djörfustu og beztu börnin þín
bundu við nafn þitt heitorð sín,

sóttu tápið til sagna þinna
sigrana mestu að vinna!

Geymir í helgi hugur vor
heimalands þrastakliðinn.
Fennt er í okkar frumlífs spor. —
Fóstrað í vestri íslenzkt þor,
dreymir títt eftir daginn liðinn
dagbjartra nátta friðinn.

## ÁVARP FJALLKONUNNAR

**2. ágúst 1926.**

Mér fannst aldrei nokkur för jafn greið
sem flugið til stranda þinna —
þú volduga drottning á Vestursleið —
varðengill barna minna.
Eg færi þér kveðjur af frónskum meið,
er foldirnar saman tvinna.

Nú lít eg hér fylkt það fríða lið,
er frægt hefir móður sína,
og farið í víking að fornum sið
og frelsinu vildi ei týna.
Hvert gæfuspor, sem að genguð þið,
varð gimsteinn í krónu mína.

Eg grét ekki hátt, er hurfuð þið,
þótt hjartanu stórum blæddi.
Eg sjálf hafði flogið um fjarlæg mið, —
á ferðunum jafnan græddi,

því styrk var sú rót, er eg studdist við,
þá stormur af hafi næddi.

Hreinleik míns eðlis eg ykkur gaf,
þótt ætti eg hendur tómar.
Norrænu lífstré þið nærðust af —
norrænir allir hljómar.
Mín bæn var máttug sem brimað haf
og bljúg eins og vorsins ómar.

Og hér á íslenzkan enn þá grið,
þótt útfallið víða streymi
og drekkt sé einstaka ljóðforms lið
í Leirá í Vesturheimi, —
þá treysti' eg um allar aldir þið
hinn íslenzka drengskap geymi.

Nú signir heiðríkjan haf og svörð, —
hver hugsun sem blómagrundir.
Og hvað er jafn heilagt á himni og jörð
sem hjartnanna endurfundir?
Sem barn að lokinni bænagjörð
eg býð ykkur góðar stundir!

## ÍSLAND OG ÉG

Ég er íslenzkra öræfa son, —
innheiða byggðin mér kær.
Ég elska hvert einasta blóm,
sem í útsýni norðursins grær.

Þó fóstran sé fjarlæg við mig,
er faðmlagið andlega hlýtt
og vorblærinn íslenzkur enn,
er andar um sál mína þýtt.

Við ættlandsins heiðríkju haf
ófst hitinn í ungmannsins sál.
Og ísinn varð uppspretta hljóms,
en eldurinn skáldskaparmál.

Mín lífsþrá er hljóm þínum háð,
hvort hraun eða stórskóga sér.
Í ljóðinu leitar hún heim
og les sínar bænir með þér.

Sál mín er samstillt við þig —
og svo er hvert einasta spor.
Við dögun af íslenzkri dýrð
ég dey inn í syngjandi vor.

Ég er íslenzkrar sólblíðu son,
og sumrinu lifi ég enn.
Til vitundar vaktir þú mig,
úr verinu heimkominn senn.

## ÍSLANDS ÞJÓÐ

Gimli, 6. ágúst 1934.

Mörgu lyfti tröllataki
táprík Íslands þjóð.
Oft í lífsins brimabraki
berskjölduð þó stóð.
Sólarljóð og Vikivaki
voru hennar blóð.

Skírð í örmum Eddu og Braga,
alin móti sól, —
fann hún grundvöll frægra laga,
framtíð sinni skjól.
Ól á brjóstum hýrra haga
Hóla og Skálholts stól.

Ráðaglögg um allt og alla
afrek stór hún vann.
Efndi hrein við hof og stalla
heit við guð og mann.

Bergmál hæstu himinfjalla
hún í málfar spann.

Sérhvern dag hún silki tjaldar —
sólarflosi nótt.
Fékk í dulbjörg draumlífs aldar
dvergsins hagleik sótt,
lýsigull og gígjur valdar,
glæsimennsku og þrótt.

Hún á landið ávallt unga,
unað þess og frið;
barnsins grát og brimsins þunga,
bæn og lóuklið;
hennar krafts og kjarna tunga
kannar dýpstu mið.

## ÁVARP FJALLKONUNNAR

2. ágúst 1928.

Nú lít eg hér blessuð börnin mín,
er brimrótið frá mér skildi.
Hvern einasta morgun í sólarsýn
eg sá þau og faðma vildi.
Í svefni, við dúnmjúkt draumalín,
hver draummynd fékk eilíft gildi.

Við Jónsmessuheiðis himin-yl
flaug hugur til vesturleiða,
þar hetjurnar leituðu hafnar til
um hafdjúpið reginbreiða.
Í hrifning var leikið hvert hættuspil,
og hérna beið ströndin þreyða!

Um Sóley í norðri sumar skín,
frá sæ inn að dalsins kynni.
Hver jökull er búinn í brúðarlín
sem blikljós af móður sinni.

þótt köld sýndist ytri ásýnd mín,
bjó eldfjall í sálu minni.

Með íslenzkri hugást ég horfi' í dag
á hópinn minn glæsifríða.
Við hlustir mér ómar ljúflings lag
frá landnámi fyrri tíða.
Hvert norrænt orð og hvert æðaslag
skal ódreymdra sigra bíða.

Þótt himinninn sökkvi í hljóðan mar
og hrynji hver borg til grunna,
ég fylgi' ykkur út yfir aldirnar
að upptökum lífsins brunna.
Í uppsprettum ljóðs eg lauguð var
og lærði þar fyrst — að unna.

## MÓÐIR Í AUSTRI

Hún skýrist í huganum, móðir, þín mynd
þess meir sem að líður á dag;
öll forsagan tvinnuð og tengd minni sál
eins og texti við uppáhaldslag.
Með útfalli hverju frá átthagans strönd
berst angan af frumstofnsins rót,
er vekur til söngva mitt vitundarlíf
eins og vorleysing hálfstíflað fljót.

Hún stendur á heiðinni steinkirkjan mín
eins og stöpull úr aldanna mar.
Mig dreymdi það ungan og dreymir það enn,
að Drottinn hann messaði þar
og legði' út af hreinleika heiðar og fjalls
og hugsjón um íslenzkan mann,
er gengi mót brattanum glaður og trúr
við gróðurmold landsins — og hann.

Hún seiddi mig ungan þín öræfafirð;
hvert ár hefir sannað mér það. —
Að endingu leitar það allt saman heim,
er atvikið færði úr stað.
Hjá tjaldsúlum handan við örófa öld, —
þó allt verði nýjað og breytt —
við barm þinn eg rita minn raunveru þátt
og renn með þér saman í eitt.

## ÍSLENDINGADAGSLJÓÐ

(Hnausum 1937.)

Áttavilltur Íslendingur
enginn sé í dag!
Æðaslögin enn hin sömu,
undirspil og lag.
Við oss blasir móðurmyndin
minjadjásnum sett.
Þennan dag er austrið eina
áttin, sem er rétt.

Sólargull og mánamildi
merla þína brá.
Innsýn djúp og útvirk hyggja
afreksverkum spá.
Stolt og víðskyggn íslenzk æska
erfa landið skal,
breyta í akur Berurjóðri,
blómga sérhvern dal.

Bjarminn út frá Egils ljóði
eggjar heitt í dag.
Stórra verka minning mótar
morgundagsins lag.
Tærra linda langspil vekur
ljóðaþjóð til starfs.
slær í takt við himinhelgi
hjarta norræns arfs.

Allir draumar, allir straumar
ávallt leita heim!
Viljinn brúar allra átta,
allra vídda, geim.
Ennþá speglar elda forna
íslenzk þjóðarsál:
Hallgrímsljóð og Lilju Eysteins —
landans Hávamál.

Ísland hækkar, Ísland stækkar,
allt fær nýjan brag.
Allt sem lækkar, allt sem smækkar,
útlægt sé í dag!
Vökusveitir allra alda
um þig haldi vörð;
sérhver ævi Íslendingsins
eilíf þakkargjörð!

## RÖDD ÚR VESTRI

Flutt yfir millilandaútvarp 1. desember 1938.

Oss brennir ei þörf fyrir útfararóð,
því enn er hér landnám í gerð;
í liðsbón ei heldur vér leitum til neins,
né lögsögumanna á ferð.
Vér spinnum hér einir vorn örlagaþráð,
þó allt sé með nýlendubrag.
En framundan eygjum vér, íslenzkir menn,
hinn andlega fullveldisdag.

Vort lífstré er eitt þó að afkvistað sé,
og árin það styrkja í rót.
Og lim þess ber út yfir aldir og rúm
hið eilífa, norræna mót.
Það rýrir ei afrek hins útflutta manns,
og útsýnið hýrnar við það,
að samstofna eining á eins fyrir því
sinn íslenzka stöngul og blað.

Úr vestrænni firð leitar hugur vor heim,
þó haustað um sléttuna sé,
og vitjar þess elds, sem að árdegis brann
um æskunnar gróandi vé.
Í lýðríki andans býr eilífð þess manns,
er algræðir þjóðanna sand.
Þeim kvistum, sem atvik og útfiri greip,
með aðfalli skolar á land.

## ÞJÓÐ OG LAND

(Hnausum, 2. ágúst 1941.)

Ótal þjóðir eiga skóga,
akravídd og risafjöll;
engin þjóð sér eignað getur
engi fegri, grænni völl.
Töfrum okkar eigin fjalla
endurvarpar lýðsins sál;
sérhvert orðtak íslenzkunnar
engilvængjað stuðlamál.

Ýmsar þjóðir eiga meira,
allar þjóðir stærri her,
okkar þjóð er friðarfylking,
fáninn tárhreinn hvar sem er.
Okkar þjóð á brynju bezta,
brynju táps og hyggjuvit;
brjóstvörn okkar Íslendinga
andlegt þrek og handarstrit.

Sé um manndómsmet að ræða,
mælast fáir betur þér;
saga þín og söngvasnilli
svip þinn vítt um jarðir ber.
Landnám Ingólfs austan hafsins
eykst við hverja þunga raun.
Vilhjálms landnám vestanmegin —
vits og elju sigurlaun.

Þú ert, Ísland, eins og fyrri,
okkar draums og vökuland;
okkar lífs og banabylgjur
brotna við þinn fjörusand.
Þú ert okkar ástarstjarna
yzt á leiðum norðurgeims;
allar þínar stoðir styrki
stjörnuvernd hins nýja heims!

## MINNI KANADA

Winnipeg, 2. ágúst 1928.)

Hýrleita heiðríkju storð,
hlaðin með allsnægta borð
þeim, sem að vilja þér vinna
og veginn til sjálfstæðis finna.

Vertu sparsöm á benjar og blóð,
breiddu frið yfir aldanna slóð.
Vertu réttlát í orði og anda,
lát ei okurvald sál þinni granda.

Frjálsborna forystuþjóð,
mettu frelsið þinn einasta sjóð!
Vertu smáþjóð í löstum og lygi,
en leitandans skjöldur og vígi.

Börnin þín alstaðar að —
eiga sér friðhelgan stað

við skrúðbrjóstin skóglunda þinna
og skýli gegn næðingnum finna.

Fóstraðu æskunnar eld
út yfir morgun og kveld.
Brenndu hvert hálfverk á báli, —
hver borg sé úr hugfestu stáli!

Legðu' yfir landnemans gröf
ljómandi minninga tröf.
Vertu takmark hins útskyggna anda,
ímynd göfgustu framtíðarlanda.

## VESTUR-ÍSLENDINGA MINNZT

(Hnausum 1934.)

Þeir bundu' ei skóþveng heimahagann við,
er höfðu að marki vinning nýrra landa.
Sjálf hættan var þeim heilagt stefnumið
og höfnin dreymd við brjóstin Furðustranda.
Og fæstir höfðu annan áttavita
en einkennin, er sól og stjörnur rita.

Svo var um yður, mætu landnámsmenn,
er margþætt örlög seiddu hingað vestur.
Þér sáuð heima höppin tvenn og þrenn,
þó hrjóstrugt væri og stundum auðnubrestur.
Ég veit þér klökkir kvödduð aldna móður,
sá koss var fjöldans eini sparisjóður.

Og sléttan mikla heillaði yðar hug,
við hennar brjóst þér festuð traustar rætur,
og sóruð henni vits og vilja dug
og vörð að standa jafnt um daga og nætur.

En dýrmætast var allt af eitthvað heima,
er andinn þráði mest og lét sig dreyma.

Þó kumblum fjölgi hérna megin hafs
og hylji sandur fyrstu landnámssporin,
þá vakir heima í möttli mjallartrafs
ein móðir, sem að fóstrar lengstu vorin,
með þökk til allra, er orktu, mæltu og sungu
í útlegðinni á hennar göfgu tungu.

Þó fataskiptin fari ýmsum vel,
er fólksins kjarni enn af sama stofni.
Þó spáð sé feigð, — í augu horfst við hel
og hin og þessi vonabjörgin klofni,
skal fram um aldir geymt í útsýn andans
hvert ævintýri í þroskasögu landans.

## LANDNEMALJÓÐ

Gimli, 5. ágúst 1935.

I.

Til hans, sem að stjórnar himni og jörð,
skal hafin í dag vor þakkargjörð;
til hans, sem var lífæð landnemans
og leiðarstjarna á vegi hans;
til hans, sem að blessar öld af öld
hvern upprisumorgun og dánarkvöld.

II.

Þeir sigla geiglaust hin sollnu höf,
er sögurnar guðspjöll skrifa
og lífinu fá í festargjöf
hvert framtak til gagns og þrifa.
Og hátt mælir oft hin hljóða gröf
til hinna, sem eftir lifa.

Sjálft lífið er eilíft landnámsstrit
í leit eftir æðstu gæðum;

það styrkir vængi við stormsins þyt
og straumfall í hetjukvæðum;
þess áform mótast og eignast lit
við eldinn af þroskans hæðum.

Þeir deyja hrönnum í eilífð inn,
er áttu hér fyrstir byggðir
og gáfu okkur allan arfinn sinn,
hinn íslenzka þrótt og dyggðir.
Nú laugar í grátþökk legstaðinn
það land, er þeir sóru tryggðir.

III.

Við frumbyggjans torfristu tök
fær tilveran skilgreint sín rök.
Í uppgræðslu óræktarmóa
býr eilífð hins skapandi og frjóa.

Hvert átak á eilífðarrót,
sem orsakar þjóðfélagsbót.
Við nýrækt í óðulum andans
skal ávaxtað manngildi landans.

IV.

Öldur rísa, öldur falla
inn í gljúfur tíma og rúms.

Út með vegum vörður standa,
vitni láns og sorgarhúms.
Mörg er víða ógrædd undin,
ennþá bíða dagsverk hörð.
Aldrei við sitt landnám lokið
lífið fær á vorri jörð.

Straumhvörf ýms þó stefnum valdi,
stofninn mikli heima býr:
Aldrei ferst í fjarlægð neinni
ferðamannsins ævintýr.
Austanvert við hafið hækkar
heiðskír rönd hins nýja dags,
meðan þreyttir Birkibeinar
bíða vestræns sólarlags.

## UPPRISA VORSINS

Í dag skal hafin heilög messugjörð
og hringd til vöku svefnsins fósturjörð,
og kyntir vitar nýrra árdagselda.
Nú helgast drottni sérhvert ljóð og lag,
því lífið heldur skírnarveizlu í dag
og drekkur erfi undanhalds og kvelda.

Til nýlífs fæðist sérhvert blóm og blað.
Nú blæðir út frá vorsins hjartastað
ein vaxtarelfur öllum máttarmeiri.
Og moldin knipplar grænan gróðrarserk.
Nú gerist lífsins æðsta kraftaverk —
í frjóvgan haga breytist blásin eyri.

Við sólris opnast allra heima dýrð.
Í örmum vors er gróðurmoldin skírð
og laugin helguð dropum daggartára.
Í bjarmans faðmi birtast undur ný.

Við blámans úthaf sindrar leifturský
sem spádómsbros frá vöggu vits og ára.

Í mannsins sál hver úthafsalda rís.
Hvert æfintýr í þroskans Paradís
skal fram um aldir geymt í ljóðsins línum.
Í tíbrá hillir skrúðgræn daladrög.
Um dögun voru sett hin fyrstu lög.
Nú lýtur alsælt lífið drottni sínum.

Á fjöllin sígur misturmóða blá.
Sjálf moldin rímast inn í dagsins þrá.
Hver sál á upptök efst við ljóssins brunna.
Og lífið sjálfrátt fóstrar allt og eitt,
hvern ellimann og barnið hjartaþreytt,
er vetrarríkið vildi ei þroskans unna.

## DÍS GRÓANDANS

Í faðmlagi sólskautsins fyrst hún svaf,
frumstofni morgunsins runnin af, —
hlaut lífið við ljóssins ósa.
Svo óx henni máttur við alda skeið,
unz einvalda drottning hún fólksins beið
í landnámi rjóðra rósa.

Sem fagnandi dagblik í draumsins sál
hún drekkur í ljósveigum heillaskál
þess alls, sem að vakna vildi.
Hún réttir fram höndina hýr og rjóð, —
í hjartanu ber þann eina sjóð,
er lífinu gefur gildi.

Hún er ekki hrædd við að heyja stríð
gegn hálfblindum, uppskafnings þokulýð,
er vill ekki sjá til sólar.
Hún brennir það allt, sem er einskis nýtt,

en andar á kjarnann svo ljúft og þýtt,
að blaðskrýðast blásnir hólar.

Sem draumspunnið, blómofið brúðarlín,
björt eins og íslenzk fjallasýn
við Jónsmessu himinheiði,
hún veitir þeim þegnrétt, er vilja sjá,
hve veröldin mikið af fegurð á
og grætur á góðs manns leiði.

Er helkaldur veturinn hnyklar brýr
og hrímgoðinn byljanna trumbu knýr,
en hagltárin hrynja' af augum,
hún kveikir á vitum vorhugans
og vígir í dagrenning óskir manns
með blikandi bjarmaflaugum.

Haustsálna skarinn í felur flýr,
þá fer hún að sunnan, prúð og hýr,
drottningin árdags elda,
með sigurfögnuð um sveitir lands
og sumar í nafni gróandans
til veraldar yztu velda.

## VORMORGUNN

Vorgyðjan blómþrungin býður oss arma, —
blikar á sólspeglað haf. —
Skógurinn logar í lýsigullsbjarma, —
laufsálum fagnandi vöknar um hvarma,
því vorið þeim vaxtarmátt gaf.

Útsýnið hýrnar, er heiðblæviskvikið
strauk hrímið af morgunsins brá. —
Hnjúkarnir vefjast í vorsólar blikið. —
Veturinn klökknandi þvær af sér rykið —
og sekkur í aldanna sjá.

Nú ryðja sig stórfljót, en gljúfragöngin
gnötra við straumþungans spor.
Smámsaman jakanna þverrar þröngin —
og þarna brast síðasta klakaspöngin,
er tengt hafði vetur og vor.

Gott var oss, Iðunn, um eplin að dreyma —
þinn andi er fjöldanum kær, —
þótt einstaka hjárænu gjarnt sé að gleyma
og grafi sig lengst inn í myrkursins heima,
með hugblæinn haustinu nær.

Langdegisþráin lifnar, hækkar,
í litbrigðum vorsins skýrð.
Andlegu skuggunum óðum fækkar —
ísviljans konungur seglin lækkar
og drukknar í morgunsins dýrð.

## VOR

Guðspjall vorsins, opið öllum,
endurskin í dag.
Titrar þýtt í tónaföllum
tímans huldulag.
Ekki gagnar undanhaldið
eða spor á snið. —
Sá, er einn á sólarvaldið,
situr stýrið við!

Kenna má í klökkva dagsins
kuldans andarslit.
Jafnvel svipir sólarlagsins
sjálfir skipta lit.
Rísa hátt í öllum áttum
andans Bjarmalönd.
Vonargull úr vorsins þáttum
vefur Íslands strönd!

SUMARVÍSUR

Roðar tinda sumarsól,
sindrar gull á vogi.
Hjúpar jökla hvítan stól
helgur sagna-logi.
Mér finnst sem allt mér opni veg
og yfir hafið kæmist ég
í einu ára-togi.

Hljómar loft af svanasöng,
syngur við í fjöllum.
Blandast fossa brimsog löng
blómahvísli' á völlum.
Af lífi titrar lilja hver,
og lækir glaðir steypa sér
af brattra hlíða hjöllum.

Allar svæfir sorgirnar
sumardísin fögur.
Sól um brekkubrúnirnar

bindur geislakögur.
Í lofti þýtur ljúfur blær,
á laufsins hörpustreng 'ann slær
og segir fagrar sögur.

## VETUR

Eg finn þig koma úr öllum áttum
með óskapa kingi af snjó. —
Brimið í þínum bragarháttum
bannar svo mörgum ró —
frá strengjanna allra innstu þáttum
berst ylur af sumri þó.

Ég sé þig líkklæða lönd og voga
og leggja blómin til, —
heyri frá mjúkum héluboga
hrímvængjað strengjaspil, —
finn sumareðlið slá árdagsloga
um íslenzkan þorrabyl.

Æfintýr mörg við áttum saman
um íslenzkan heiðageim.
Að kuldahlátrum henti eg gaman —
fann hlýindi líka í þeim;

Ég leit þig af kjarki ljóma í framan —
leika sverðum tveim.

Flestir kjósa þig feigan, Vetur — —
þeim förlast máske sýn
og skilja' ei til fulls hið flókna letur —
frostrósa málverk þín.
Ég veit þó, að enginn annar getur
ofið slíkt helgilín.

Þótt mælirðu oft af miklum þjósti,
er máske vott um brá.
Mér heyrist ég kenna í hörkugjósti
hálfdreymda sumarþrá, —
finn jafnt í eldgígs og íssins brjósti
eilífðar hjartað slá.

## ÞORRI

Frosin saman láð og lögur, —
lagt með silfri hélukögur
vefst um hálsa, hraun og fell.
Norðangarður hlátur-hreykinn
hyggst að vinna síðsta leikinn —
móta allt í eilíft svell!

Dyngjufjöll úr fönn þú reisir,
fáki bylja trylltum þeysir
yfir stórvötn ísi lögð.
Vilt þú engum ylhug sýna, —
alla neyða' á skoðun þína, —
klakans túlka trúarbrögð?

Yfir þinni þinghá lýsa
þúsund glampar stjörnudísa,
kristalls sjóli silfurhár.
Skrýddur brynju hvítri hringa,

hlægir þig mökkvinn skafrenninga, —
falla af augum frosin tár.

Síðla gleymast fingraförin, —
flestir bera lengi örin
Hræsvelgs eftir hríðar-grip.
Bókfell þyngstu búsifjanna,
brot úr sögu flestra manna
þekkja má í þorrans svip.

Framrás margra ljúfra linda
lengi vel þér tókst að binda, —
svefnþorn stinga sumri og yl.
Þó má heyra' í hrönnum skafla
hjartslátt nýrra gróðrarafla —
sólardraumsins sigurspil!

## BRIM

Við sandana brimið brotnar,
það ber með sér upp á land
öll feiknin af gömlum flökum,
er fortíðin sigldi í strand.

Þó feyskið sé margt eitt flakið
og fljótaskriftin máð,
er eitthvað á öllum stöðum
úr aldarháttum skráð.

Og brimlöðrið nesin nístir;
það nær upp í miðja hlíð.
Í fangi þess á hver alda
sitt upphaf og dauðastríð.

Til brimrótsins svipar Sögu —
frá Sökkvabekk lýsir enn, —
hún sæmir oss ótal erfðum
um afrek og dána menn.

Við hættunnar helgidóma —
um hamstola Drafnar sund
tendrar sér árdags elda
hin útskyggna farmanns lund.

Hver sál, sem er íslenzks eðlis,
kýs ólgandi manndráps höf.
Því lífið er líkast brimi
og lognið þess hefndargjöf.

## FROSTI

Mér finnst eg skilja, Frosti, tilgang þinn,
því förunautur löngum varstu minn.
Þú vildir engu eyða nema því,
sem enginn minnsti veigur reyndist í.

Þín ávarpskveðja, köld á ýmsa lund,
á kannske skylt við ljúfa vordagsstund
og opnar eins og ljóðspá Huldar hlið,
þar himnaríki draumsins brosir við.

Þín faðmlög oft þó finnist mörgum köld,
jafn flekklausan bar aldrei nokkur skjöld.
Við klakabarm þinn nam ég lífsins lög
og lærði að elska stormsins hjartaslög.

Þín lund er hvorki læpukennd né dul,
þú lýstur fast og veitir naglakul.
Þitt hreinleiks-guðspjall hefur snortið mig,
og hópar manna sækja táp í þig.

Við þekktumst lengi — eigum samleið enn,
þinn andi flytur vorið hingað senn.
Hver kristallssúla líkist logastaf —
allt landið sólu speglað mjallarhaf. —

# HAF

Fagra, bjarta, breiða haf, —
brúað sólargeisla staf.
Alla leið, sem augað sér,
ertu líkt og slípað gler.
Í þér speglast heiðishátt
himinhvolfið djúpt og blátt.

Líkt og bæn frá barnsins sál
birtast mér þín Huldumál.
Snemma unglings andi minn
yndis naut við barminn þinn.
Með eldi fyllta farmanns þrá
eg flúði þínar náðir á.

Vítt um bjartan bárustig
borið hefir lífið mig.
Enn mig heillar unnarspil,
út eg lengra sigla vil.

Kanna fleira, fleira sjá,
ferðavolki þessu á.

Þú ert ímynd ægivalds,
engan krefur hafnargjalds.
Býður opið brúðarfang
barningsmóðum ferðalang.
Bárukirkjan bláa þín
býður mörgum heim til sín.

Fagra, bjarta, breiða haf, —
brúað sólargeisla staf.
Eg er líkt og annar hver,
aðeins dropi af sjálfu þér.
Svöl við bárubrjóstin þín
bíður hinzta rekkjan mín.

## Í DÖGUN

### I.

Ljósrákin hækkar í austurátt,
enn er þó vesturloftið blátt
og stjörnur á himni heiðum.
Mér ægir ei hót þetta eyðihjarn,
áfram ég dansa sem fótlétt barn
eftir fannanna bungum breiðum.

Fram, eftir hjarninu hvet eg spor,
nú heiti' eg á vonanna sigurþor
og æskunnar kraftakynngi.
Sú leið, sem eg aleinn ætla mér,
er örðug hverjum, sem hana fer,
en örðugust einstæðingi!

Smásálir ætluðu að aftra mér
og atyrtu leiðina, sem ég fer,
og þöktu 'ana þyrnisveigum.
Þær hafa nú uppskorið hefnda gnótt —

af heiðblámans lind drekk eg fjör og þrótt
í lífgandi, löngum teygum.

II.

Í huganum eygi eg undrafjöll,
ofin rósum og drifin mjöll,
gnæfa við himinheiði.
Þar veit ég í sífellu sólin skín,
þar syngja vorfuglar ljóðin sín
frjálsir á fögrum meiði.

Þar óma svanvængjuð ástarljóð,
og útvalin byggir landið þjóð,
er sannleikans sigur þekkir.
Þar hylja' ekki manngildið myrkur-ský. —
Hvort mun ekki sælt á landi því,
er bróður sinn enginn blekkir?

Ég öfunda' ei þann, sem á undan mér
kemst ef til vill stundum og fleira sér —
því hendingar höppum ráða.
Ég veit, að þeim einum auðnast kann,
sem aldrei brá tryggðum við sannleikann,
að líta' inn í landið þráða!

## Í RÚMSJÓ

Mig gildir einu þó gjálpi hrönn;
það gaf oft á bátinn fyr.
Og fæstir sigla til hafnar heim
við Hrafnistumanna byr.
Þó sjór falli inn á bæði borð,
skal beitt í vindinn og mælt ei orð. —
Ég engan um áttir spyr.

Þó kvikan í dag sé viðsjársverð,
var verra þó miklu í gær. —
Í eðli hvers manns er eitthvað það,
sem áttunum loksins nær.
Í rjáfri himnanna rofar til,
svo ratljóst verður um Drafnarhyl, —
og þokan, hún þokast fjær.

Mín sigling var öll ein svaðilför,
og sextánd mér enginn gaf. —
Við stefnuleit er það styrkur mér,

að stendur hann landi af.
Á bátnum ég lofum og lögum ræð.
Með lífinu tek ég sólarhæð
og sigli mitt sollna haf.

## UM KVÖLD

Nú drúpir höfði himinsól
við hafsins bárusæng.
Og einn ég stend og ekkert kemst,
sem örn með brotinn væng.

En þótt mig svellköld bindi bönd
og banni tíðum flug,
ég á samt dýrðleg undralönd
og ástar-vor í hug.

Ég sé hvar skugga safnast lið
um sund og dal og hlíð.
Og hinzti geislinn hervæðist
í heilagt frelsisstríð.

Þótt allir skuggar skipi sér
um skálann litla minn,
ég sæki nýjan sólskins-þrótt
í sjálfan himininn.

## ÞUNGLYNDI

Hornið er meira' en hálfnað,
hugða' eg þó drykkjar gnótt.
Dettur á þessi dökka,
dýrmæta, langa nótt.

Heyrði ég fyrr á hörpu
hugnæm ástarljóð. —
Af strengjunum dular-djúpu
drýpur feigðarblóð.

Hringinn í kring ég heyri
hlegið og leikið sér. —
Dauðann í öllum æðum
ótvírætt ég ber!

## UNGLINGS-ÞRÁ

Heim til blárra himin-fjalla
hugur unga sveininn ber.
Þar sem ástardrauma dísin
drottin-fögur unir sér.

Eins og heilög móðurminning,
munarklökk og þýð og hlý,
brosir landið ljúft í óði —
laugað sólskins-draumum í.

## MINNING

Í grátinum komst mín gæfa hæst —
varð gullið í lífs míns sjóði.
Hvert saknaðstár bar mig sólu næst,
og sorgin varð ævigróði.

Þótt sýndist mér helgrár himinninn
og harmur í æðum brynni,
við tónmjúkan hjartahlátur þinn
varð heiðríkt í sálu minni.

## DRAUMUR

Þó ókunnugt sé mér um áfanga þinn,
í armlögum þínum mig sjálfan ég finn
á ferðinni furðulegu.
Hver ómælisvídd verður eins og spönn;
allt útsýnið glitrandi logahrönn
um bláloftsins bjarmavegu.

Í draumunum skapast allt dýrðlegt og hátt,
hver djarfmannleg hugsun og lífsins sátt
við andróðra árs og tíða.
Þar æfa sinn skilning við eld og hjarn
hver ungþroska maður sem gamalt barn
og leiðtogar allra lýða.

Í draumhelgi andans býr eilífðarvor;
þar eygir sinn tilgang við hljómþroskans spor
hver eining, sem öldin gleymdi.
Þar fellur um sjálft sig allt feyskið og hálft.
En framtíðar stórdrauminn — lífið sjálft —
vorn drottin í fyrstu dreymdi.

## LJÓÐFÖR

Úr fábreytni hversdagsins leitar mitt ljóð
til landsins, sem andann því gaf;
það finnur sitt eðli í öræfabyggð
og allt, er í gleymskunni svaf.
Það spyr ei til átta, þó óveður sé
og umhverfis lýsi' ekki neitt,
en ferðast í öryggi uppruna síns,
sem aldirnar fá ekki breytt.

Og rafvængjað klýfur það rastirnar heim,
hvort rökkvuð er nótt eða björt.
Í brjóstfylking lífsins það leiðir það fram,
er leynt höfðu óminnin svört.
Það skilgreinir guðseðli moldar og manns
og mótast af langdægra þrá
og lýkur upp hliðum að helgidóm þeim,
sem heimurinn fegurstan á.

Þó misgreið sé förin, þá fjötrar ei neitt
hið fundvísa, íslenzka ljóð;
það gerkannar auðnanna ómælis rúm
og eldvígða sögunnar slóð.
Í heiðskyggni andans það eygir þau lönd,
er ódreymi tímanna fól,
og blessar hin hrímguðu heimalands vé
við hækkandi stjörnur og sól.

Í brimstuðlum ljóðsins býr eilífðar afl
og eldur hins norræna manns;
það húmvöku breytir í hábjartan dag
frá hafi til bláskóga ranns.
Það finnur í guðsdraumi frumleika sinn,
sitt flug og sitt ólgandi blóð.
þess upphaf er morgunsins upprisu skin,
en ívafið náttmála glóð.

Úr ljóðför að heiman mitt ljóð kemur enn
og lýsir upp bersvæði kunn;
í íslenzkri nýsköpun nemur það lönd,
sem nærast við hjarta míns grunn.
Eg geng með því aleinn minn órudda veg
um urðir og hrikaleg fjöll.
Allt lýtur að endingu lögmáli því,
sem ljóðinu haslaði völl.

## TÓNNINN

Tíðrætt varð um tóninn þann
tildurgjörnum sprundum,
og jafnvel út um allan bæ
var um hann talað stundum.

Oddborgurum ekki sízt
út úr þótti' hann skera,
og sumir hinna sönglærðu
sögðu' hann falskan vera.

En allir höfðu' í einu rétt,
er um hann felldu dóma,
að samræmi var hann ekki í
við alla þekkta hljóma.

En enginn virtist að því gá,
þótt allir þættust snjallir,
að verið gat 'ann himin-hreinn,
en hinir falskir allir.

## VARÐMENN TUNGUNNAR

(Helgað prófessor Watson Kirkconnell.)

Meðan deyr í syndum sínum
svipsljó værðarhjörð,
nýir vökuvinir bætast
vorri fósturjörð,
er um málsins stoltu stofna
standa traustan vörð.

Frumrót vits og orðsins orku
enginn vængi skar;
málsins eldi aldrei breytir
uggsýnt veðurfar.
Upphaf gráts og eilífð hláturs
eiga samleið þar.

Þó að hráköld hélugríma
hjúpi marga sál,
lifir enn á ótal vörum
okkar tigna mál,

þar sem fjærst í vonaveldi
vestrið kyndir bál.

Þeim sé greidd, er vaka á verði,
verkalaun í dag!
Hundasúra hæruskotin
hinna merkir flag. —
Orðsins list á enn í sköpun
Íslands mesta brag.

Þó að taumlétt tapi áttum
tvíveðrunga kyn,
Ísland finnur út um heiminn
alltaf nýjan vin,
sem að döggvar mildum muna
málsins græna hlyn.

## VÖKUMENN

Þeir, sem eiga í vök að verjast,
verða að þola margt og berjast;
þar sem óttinn varðar vegi,
verður fátt um gróðrarteigi.
Mestur fengur frónskri móður
fólksins þrek og landsins gróður.

Þó að fjöldans taugar togni,
týnist peð í rjómalogni,
ýmsir fái heilahristing,
heimskan bjóði næturgisting,
gætir ættareldsins sanna
útskyggn fylking vökumanna.

Þeir sem flýja í fylgsni nætur
festa sjaldnast nytja rætur.
Hliðskjálf andans, óskahöllin
allra, sem að stefna á fjöllin;

þeirra dáðir dagsverk inna —
dalalæðan bíður hinna.

Enn er fólk í dilka dregið,
daðurskjall með lotning þegið;
svefnþorn stungið málsins menning,
mörvaþunginn æðsta kenning,
makráð öfl í lífi landans
letursett á kostnað andans.

Yfir heiðum Íslandshvarmi
ennþá tindrar jökulbjarmi.
Þar skal helmerkt síðsta syndin.
Sótt í daginn fyrirmyndin.
Þar skal eilífð eilífðanna
eldinn kynda vökumanna.

## ÞJÓNN LJÓSSINS

Hamrarnir skelfa' ekki hug þess manns,
er, helgaður þjónustu sannleikans,
leitar til ljóssins hæða
að lind hinna dýpstu fræða.

Útverðir dagroðans eggja hann,
þann andlega brattsækna konung-mann,
að klífa upp björgin bláu
og af brúninni skyggnast háu.

Þar mótast hans andi, er morguninn
dregur myndir á austurhimininn
og ljósfljótin líða að sævi
með ljóðklið í heiðis-blævi.

Að lýsa' inn í myrkrin er löngun hans
og ljóma upp skammdegi syrgjandans. —
Hann langar að lækna sárin
með ljósi og þerra tárin.

Um aldirnar stendur þar óðal hans,
þess einbeitta talsmanns sannleikans —
í álfunni óðs og hljóma,
við eilífan dýrðarljóma.

## ÞÚ —

Ég hafði sofið — vissi' ei vel hve lengi,
því værðin á svo marga gleymna strengi.
Þú vaktir mig með ylsins andardrætti,
sem undirspil að vorsins bragarhætti.

Ég leit þig fyrst í tíbrá draumsins titra,
sem tárablik á vorsins hvarmi glitra, —
í sólbráðinni sá þín áform stækka
og sálar minnar berurjóðrum fækka.

Ég grét sem barn við hálfar sögur sagðar,
með særðar vonir — aðrar kistulagðar.
En jafnvel mitt á ævisorgar söndum
með sól þú komst frá vorsins Bjarmalöndum.

Með þér eg hefi kannað heiðishöfin
og haft að seglum norðurljósatröfin, —
í fararlok að brúna þinna bending
sett bátinn upp í morgunroðalending.

Eg hefi vaknað — vorið er að kalla
til vöku — sigurs þjóna sína alla.
Í blæ þess kenni' eg klökkva raddar þinnar,
finn klakann leysa' af unnum sálar minnar.

Sem gróðrarþrá í undirvitund vorsins
þú vakir hjá mér allt til hinzta sporsins.
Og sé þess von, þig síðast vildi' eg leiða
til Sólarlands um næturhafið breiða.

## DÍSA

Alveg ertu Dísa
einstök perla,
ólík að flestu
öðrum konum.
Auðug af hreinskilni
og hluttekningu,
en blásnauð af hræsni
og hégómleik.

Fögur ertu víst,
en fegri sumar
konur mér fundust
við fyrstu sýn.
Því veldur göfgi þín,
að þú virðist mér
sem gyðja gullfögur
frá Gimlissölum.

Aldrei er í hug mér
svo heldimm gríma,
að rödd þín ei rjúfi
rökkurtjöldin.
Allt eins og vordögg
ungu laufi
eru mér falslausu
orðin þín.

## ÁLFRÚN

Hún sýndist að jafnaði hæglát og hljóð —
sem hugur um bæinn hún leið.
Í svipnum var ástþýður alvörublær,
hvert orð líkast molltóna-seið.

Ég sá hana glaða, þá sýndist hún mér
eins og söngmær í fagnaðar-leik.
Og síðar ég leit hana' í syrgjenda hóp —
hún var söm, en þó dálítið bleik.

Ég gleymdi því aldrei, hve góðleg hún var —
hve göfugt og blítt hennar mál. —
Það lagði frá augunum læknandi yl
og ljós inn í smælingjans sál!

## STÍNA Í ÞVOTTAHÚSINU

Um ætt hennar veit ég ekki neitt, —
á öndverðri landnámstíð
hún fluttist vestur til Winnipeg
og vistaði sig um hríð;
í þvottahúsi þaðan í frá
hún þrælkaði alla tíð.

Af ótal þjóðernum þvoði hún —
og þvoði líka af mér;
yfir balanum söng hún sálmavers
og sættist við mótgangsher.
Í köllun þvottsins hún fann þann frið,
sem að fáum veittur er.

Um blöð að heiman hún bað mig oft,
og byðist þá jákvætt svar,
þá sléttuðust hrukkur hörundsins
og hýrt yfir bránni var;

mér skildist sem leynd og ógleymd ást
á altari brynni þar. — —

Og svo var það loks einn sunnudag,
er sumrinu halla tók,
að Stína síns úrslitaandvarps beið
með íslenzka sálmabók
og vígði sinn anda ferðafrjáls
þeim föður, sem lífið skóp.

Og nú var konan, sem kunni að þvo,
á krossgötum hinztu stödd
og lögð til hvíldar í laufgum reit
af lífinu meira en södd;
og hún, sem að elskaði Ísland mest,
á ensku var síðast kvödd.

## ÁSRÚN

Jafn kynlega ungmey ei áður ég sá,
en elskað ég gat hana þó;
það hvíldi' yfir enni og augnanna hyl
svo undarleg steingjörvings-ró.

Hún virtist mér stundum sem marmaramynd,
en málið var hvellt eins og stál.
Hver hugsun var köld líkt og hafísa-þök
og hrein eins og frostrósar sál.

## HARALDUR Á RAUÐAFELLI

Margar ár og illar vaðið,
af sér norna hryðjur staðið,
þolað ótal útilegur,
aldrei veill né fótatregur
gekk á hólm við háa elli
Haraldur á Rauðafelli.

Þó að sviði sorg í taugum,
sást ei falla tár af augum;
norræns anda eðli stæltur,
orðafár, en spekimæltur,
aldrei hnaut á hyggjusvelli
Haraldur á Rauðafelli.

Fellið greypt í gullinn ramma,
gott til bús um nes og hvamma;
hetjustritið myrkra á milli
mótað vits og handarsnilli;

heitorð batt við heimavelli
Haraldur á Rauðafelli.

Búið hafði blessast lengi,
bætt var tún og stækkað engi;
færri blásin berurjóður,
bjartara um hinn nýja gróður.
Snjóflóð hremdi í hæstu elli
Harald kóng á Rauðafelli.

## JARÐYRKJUMAÐUR

Hann kveður í lýsingu kóngsríkið sitt,
því krafan um dagsverk er hörð.
Við þann sem að græðslunni gaf sig á vald
er gjöful hin stórláta jörð;
hann finnur þar eðlis síns orsakarök
í eldskírn hins daglega strits
og veit það, að sigurinn síðasti býr
í samstilling handar og vits.

Í heilögu samstarfi moldar og manns
býr máttur hins rísandi dags.
Í fögnuði stritsins býr frjóvgunarmagn
til frelsandi kynslóðahags.
Þau geymast til eilífðar átökin hans,
er erjaði grænkandi svörð,
og starfsemdalaunin að lokum hann fær,
þó löng væri brýnan og hörð.

Í trúnaði lífsins hann treystir sitt þrek
og telur ei dagsverkin sín,
því starfið er sjálfsþörf og sælan þá mest,
er sól yfir akurinn skín.
Hann veit, að hver iðja, af einlægni gerð,
er unnin í þjónustu hans,
sem málaði kveldroðamyndir á fjöll
og morgun til sjávar og lands. —

Í konungsgarð þreyttur hann kominn er heim
við kveðjur frá lækkandi sól.
Og öryggissælan í sálu hans vex
að sjá þetta friðaða ból!
Úr dásemdum lífsins sinn dýrasta þráð
hver dís inn í ævi hans spann. — —
Nú bíða þau óhult síns upprisudags
í armlögum moldin og hann.

## GÍGJULEIKARINN

Hálfrökkur húsið fyllir,
hljómgígja strengja-slök
yzt út í horni hangir,
hélustöm og rök.

Handvana halur aldinn
horfir gripinn á. —
Íslitum brúnum undir
augu stara blá.

Eitt sinn til auðs og frægðar
opinn vegur lá. —
Stýfð var á manndóms morgni
mundin úlnlið frá.

„Hlustið! Gígjan hljómar“,
halur mælti skjótt.
„Séð hefi' ég sextíu árin
sönglaus um dag og nótt“.

„Nú er ég ungur aftur,
andans búinn dug.
Guðirnir gefið hafa
Gígjunni tónaflug“.

*

Hálfmáni bleikur horfir
hrímgan gluggann á.
Ljóðstolin liggur gígja
líki fölvu hjá.

## KOTIÐ MITT

Lengst fram í þröngum og djúpum dal
við dverganna hljóðskraf og fossatal,
þar skógblærinn andar frá skrúðgum hlíðum
og skemmta sér hjarðir tíðum,
er kotið mitt lága' í klettasveif,
kafið í hríslum fríðum.

Við laufgaðar bjarkirnar leik ég mér,
og laufskálahátíð er dagur hver,
sem nýt ég að fyllstu við fjallsins rætur,
þar friðurinn drottnar mætur
og gefur mér efni' í unaðsdraum
til indællar, þráðrar nætur.

Handatök voldug þar vart má sjá,
því veikburða' er sá, sem kotið á,
hann vildi þó veg þess hærri.
Og ánægður blundaði' hann síðsta sinn,

sæi' hann, að ræktaði bletturinn
væri' aðeins örlítið stærri.

Þótt dalurinn hans sé svo þröngur þar,
og þyrpist skuggar um hlíðarnar
í allskonar undramyndum,
í einveru sinni hann finnur frið,
það fær honum gleði, að sólskinið
er ennþá á efstu tindum.

## EFTIRLEIT

Sauðljóst þó að sýnist valla,
samt er haldið beint af stað.
Gönguþráin grípur alla,
gróðahlutdeild spáir það.
Einhvers staðar upp til fjalla
inni næst, er húmar að.

Mikið skal til mikils vinna;
margan vantar lamb og sauð.
Þeir, sem eitthvað af þeim finna,
eiga von um kryddað brauð —
roðadíla rósakinna,
rökkurkoss og faðmlagsauð.

Margt er gilið göngumanni
gestaþraut, er syrtir að;
hætt við því, að gáskaglanni
gleymi sér á slíkum stað,

gangi á hljóð í hamraranni —
hirði hvorki um stöng né vað.

Fjallakóngi fatast ekki
forustan né ráðin glögg;
líkt og út í æsar þekki
öræfanna brigðin snögg. —
Særir fram úr sortans mekki
sauðahóp með víkings rögg.

*

Áð er loks hjá lindum auðum, —
leitin stóð í daga fimm.
Tylft af lömbum, tug af sauðum,
taldi úr vörzlu afrétt grimm.
Ekki er hollráð hyggjublauðum
heiðarnóttin löng og dimm.

*

Einn var sá, er ólund kvaldi
eftirleit hins fyrsta dags;
heim sér skemmsta veginn valdi,
vék úr fylking bræðralags. —
Illur þræll á undanhaldi
á ei bjargarvon né hags.

Sá drakk aldrei ljóss af lindum, —
löðurmennsku þráðinn spann;

engan dag af efstu tindum
útsýn yfir lífið fann;
merktur óttans erfðasyndum,
engin kona dáði hann.

*

Yfir veldi öræfanna
eldar himins lýsa rótt.
Stimpluð bjarma fyrstu fanna
ferðin verður greiðar sótt.
Glatt er skapið göngumanna,
gott að komast heim í nótt!

## JOSEPH THORSON, RÁÐHERRA

Upp af vorum stolta stofni
sterkir rísa vökumenn;
menn, sem þora hátt að horfa,
höggva títt og leggja í senn;
þegar mest á þreklund reynir,
þessir aldrei blása í kaun;
þjóðarheill er þeirra boðorð,
þeirra fyrstu og einu laun.

Holt var þér að hafa eignazt
Halls af Síðu fórnarlund;
látið andblæ Íslands-sagna
um þig leika marga stund;
kynnzt við innsýn eðli þeirra
Íslendinga, er risu hæst,
þar sem frægði Furðustrendur
fyrirmyndin íturglæst.

Illa hefði vátryggt verið
Vesturfarans auðnuskip,
ef að heillar þjóðar þroski
þekktist ei í barnsins svip;
illur myndi orðstír verða,
ævilokin myrkur-rauð,
ef vér magaflatir féllum
fyrir tvísýnt náðarbrauð.

Áform þitt frá æsku stefndi
inn á ný og hærri mið.
Suma menn ber hátt við himin,
halda sér þó jörðu við;
jafnvæg öfl á allar hliðar
átthaganna geymdu fræ;
þjóðarást og Þorgeirsspeki
þínum gerðum ráði æ!

Tveggja þjóða ítök áttu
arfi Fróns og vestræns lands,
þar sem mætast skin og skuggar
skóga jafnt og eyðisands.
Njóttu heill með heiðar svanna
hæsta sætis æ með þeim,
er í sorg og sigurgleði
segja upp lög um Vesturheim!

## KVEÐJA TIL EINARS JÓNSSONAR FRÁ GALTAFELLI

Winnipeg, 14. september 1918.

Við móðurlands fjall-brjóstin mjúk og græn
vér minnumst þín fyrst eins og drengs á bæn
í sælunni sveitafriðar,
með sumar á allar hliðar.

Og víðsýnið heillaði huga þinn —
en Hulda með útbreiddan faðminn sinn
bauð þér til huliðsheima,
að hugsa þar, starfa' og dreyma.

Og altari listanna leiztu þar — —
við lýsigull norrænnar menningar
og íslenzku móðurmerkin,
þú mótaðir listaverkin.

Nú hefir þá löghelgast landnám þitt —
listanna drottning veitt goðorð sitt

einróma' á andans þingi
íslenzkum stór-snillingi.

Samt bíða þín framundan björtust lönd
og brúðför um ónumda sigur-strönd,
þar sem íslenzkri ljósþrá orna
útsýnin heiðra morgna.

## TIL SVEINS THORVALDSSONAR, M. B. E., VIÐ ÍSLENDINGAFLJÓT

24. janúar 1935.

Það fara' ekki margir í fötin þín, Sveinn,
að frækni í elju og striti.
Og þú gengur ennþá svo bjartur og beinn
og brynjaður íslenzku viti.
En þrátt fyrir margskonar annir og ys
og átök við hryðjur og rosa,
varð aflrauna bjarg hvert sem ódeilis fis
og alla tíð svigrúm til brosa.

Þú kunnir þér illa í kveifmenna sveit
með kræklum, sem vermast við ofninn;
þín bardagalöngun var hamrömm og heit
og hrein eins og norræni stofninn.
Þig langaði ungan að skilja þín sköp
og skyggnast um nýheima álfur,
og þrátt fyrir örlæti, auðsæld og töp
þá áttu þig gránaðan sjálfur.

Með sjálfsdáð þú ruddir þinn víkingaveg
og valdir þér Bifröst að setri. —
Þó konungleg orða sé ákjósanleg,
er arfurinn norræni betri.
Á steintöflum aldanna stendur það glæst
og stimplað á kynslóðarótið,
að komist þú einn hafir krýningu næst
af kóngssonum norður við Fljótið.

## TUTTUGU OG FIMM ÁRA AFMÆLI LESTRARFÉLAGSINS Á GIMLI,

14. ágúst 1936.

Í bókunum geymist öld frá öld
hin óslitna jarðlífssaga;
þar reiknast kynslóða refsigjöld
frá rótum til nýrra daga;
þar bera ljóðhetjur skíran skjöld
í skrúðför um lundi Braga.

Á blaðsíðu hverri er mannlífsmynd
og málaðar heilar álfur;
á einni blasir við ógn og synd,
en annarri dauðinn sjálfur.
Af hégómans jafnsléttu hæst að tind
er hylltur hinn gullni kálfur.

Í guðanna bústað við Gimli-sæ
skal geymast til hinztu tíða
hvert vesturflutt andlegt aðalsfræ,

er íslenzka sál má prýða.
Og hjartað er tengt við heimabæ,
þó handtakið liggi víða.

Og íslenzka bókin er okkur kærst
með ástir og saknaðshljóma;
af ávöxtum hennar við höfum nærzt
við hafið í kvöldsins ljóma.
Þar á okkar framtíð óðul stærst
og ævinnar helgu dóma.

Á blaðsíðum ýmsum birtast menn,
er blikna ekki fyrir striti.
Þó skipti vökunni skipshöfn tvenn,
þeir skapa sér nýja liti.
Og fegursta bókin er óskráð enn
úr íslenzku hyggjuviti.

## MARKERVILLE-BYGGÐIN FIMMTUG

Bjart um svið til beggja handa,
beitt í vindinn hálfa öld.
Sjást í hilling sögubjarmans
svitadropum máluð tjöld.
Sonur Íslands á þar heima
enn í dag og fer með völd!

Klettafjöllin hátt til himins
horfa risatöfrum skyggð.
Stefáns andi á þau minnir
yfir hverri landnámsbyggð,
þar skal eilífð endurfæða
úrval hvert úr frónskri dyggð.

Táknræn gildi traustra stofna
tíminn sker í lífsins börk.
Frumtónn andlegs ríkisréttar
ræktar hverja eyðimörk.

Norrænn heimur hleypti af stokkum
hyggjuvitsins sáttmálsörk.

Kvistuð fylking frumherjanna
fellur ótt og títt í val.
Sterkir, ungir efniviðir
eiga að tjalda nýjan sal.
Landnám Íslands út um heiminn
engin takmörk þekkja skal.

## Í KVEÐJUSAMSÆTI ÓFEIGS LÆKNIS ÓFEIGSSONAR OG FRÚ MARGRÉTAR,

20. október 1935.

Þeir fara ekki allir jafn fimlega að,
er frægja sitt þekkingar pund.
En Ófeigur læknir er eins fyrir það,
þó annríkið synji um blund.
Með vitsmunafestu hann fægir sinn hníf,
því frábær í tækni hann er;
sé um það að ræða að öryggja líf,
hann einbeittur saumar og sker.

En veikist hann sjálfur er viðhorfið breytt;
þá verður hann rétt eins og ég.
Og þá verður hjartað og höfuðið þreytt
og húmað um alfaraveg.
Ég ber mína þjáning til eilífðar einn —
en Ófeigi vegnar þó skár,
því Margrétar-svipurinn samur og hreinn
af sjúklingnum þerrar hvert tár.

Eg meitla þá stund, sem við áttum hér öll,
í óskir hins komandi dags.
Og þó að mín trú ekki flytji nein fjöll,
hún fært getur eitthvað til lags.
Þó fjarlægðir skilji, ég finn að mín þrá
er frumtengd við íslenzkan geim;
og allt það, sem fegurst ég erlendis sá,
með Ófeigi sendi ég heim.

## TIL DR. ÁGÚSTS H. BJARNASONAR

(Winnipeg, 1923.)

Hvert landnám í andans aldinreit
sló eldingu' um rökkursali
og lýsti hvern 'afdal í Íslands sveit
með óðsnilld í sögn og tali.
En vaknandi þjóðin jafnt vorið leit
í vitrings sem barnsins hjali.

Af alfaraleiðinni oft fór sá,
er eldinn til hæða sótti,
því vitið er leitandans Völuspá,
er vígir hann sigurþrótti.
Og aldrei sá neinn hans blikna brá,
þótt brysti í liðið flótti.

Með ættarlands fánann efst við hún
þú út hefir sótt á miðin
og fegrað með starfinu föðurtún
um fjöldamörg árin liðin.

Með átaki hverju þú ræður rún,
svo rýmkast um hyggju-sviðin.

Með kveðjuna' að heiman kær varð oss
koma þín hingað vestur.
Við minning um heimlandsins Huldufoss
er hátíðablærinn mestur.
Flyt svo til ættlands vors ástarkoss,
þú íslenzki, prúði gestur.

## KVEÐJA TIL KJARTANS PRÓFASTS HELGASONAR,

5. apríl 1920.

Þeir mæla sér fegnir móts við þig,
er morgninum gengu' á hönd.
Þú sýndir þeim enn í Íslands sál
ónumda furðuströnd
og tengdir við elskað ættarland
hin andlegu þjóðlífsbönd.

Með helgum eldi frá Íslands rót
þú ornaðir margri sál.
Í setning hverri þú seiddir fram
sögunnar kynngi-bál
og brendir í hjarta barnsins tryggð
við blíðstrengjað feðramál.

Eg veit þú hefir með eldi orðs
andlega jökla brætt
og Sökkvabekks-dísar sjálfrar til

svarið þig beint í ætt — —
af hugsanagnægð vors heimalands
margt hugtúnið skrælnað klætt.

Gleymt verður síðla gullið það,
er gaf oss koma þín.
Þú leiddir oss inn í íslenzkt vor
og andlega fjallasýn
við vaknandi sumars sigur-blik,
þar sól yfir nóttum skín.

Það máist seint af oss merkið það,
er móðirin lét í arf.
Og áður en Vestur-Ísland deyr
fer ýmislegt stórt í hvarf. — —
Um eilífð verður á einhvern hátt
íslenzkt vort sálarstarf.

## Á HELJARDALSHEIÐI

Djöfulóður hríðarhamur
hellist yfir lög og storð. —
Kveina hraun og klettaborð.
Vopnaslyngur veðragramur
vélráð hyggur á og morð.

Slitinn halur hlaupin þreytir
heim á leið í þessum byl,
hann sér varla handaskil.
Engir berir eru reitir,
ekki rofar vitund til.

Kunnur er 'ann hríðarhörkum,
hefur löngum teflt þær við.
En nú eru' ekki gefin grið.
Beinkalinn á berum jörkum
brýzt 'ann gegnum fárviðrið.

Þarna grillir hamrahyrnu. —
Huldardröngum líkt það er. —
Efst er klettakróna ber.
Eins og sindur Gláms úr glyrnu
glotti skruggu' um mökkinn fer.

Enn er varla hálfnuð heiðin,
hleður niður kingi-snjó. —
Áður var þó ærið nóg.
Villugjörn því verður leiðin. —
Vonaskörðin næsta mjó.

Hlaupin má 'ann herða betur —
heim í kvöld — það varðar líf!
Bíður heima helsjúkt víf,
um sumar jafnt og svalan vetur
sem að var 'ans traust og hlíf.

Hann kemst ekki hálfspönn lengra,
hefir að kodda mjallar-skafl —
fönn er sæng og fótagafl.
Verður æ um andann þrengra,
yfir stendur lokatafl.

*

Finnst honum allt eins og 'ann hvíli
undursæll við brúðar hlið. —

En nú eru' ekki gefin grið.
Íslands fjalla' í fanna-skýli
farandmaður skilur við.

*

Dægrum þremur þetta eftir
þá er komin veðrabót. —
Eygir hvergi auðan hnjót.
Hvarfið þótti fáum fréttir. —
Farandmanns var dáin snót.

*

Hefði það verið heldri maður
hafin mundi vikna leit. —
Aflað manna sveit úr sveit. —
Farandmaður fáefnaður
fjær má liggja kristnum reit!

## SIGNÝ STEPHENSON OG JOHN DAVID EATON

(Brúðkaupsljóð, 9. ágúst 1933.)

Eg veit, að það er ekki heiglum hent
að hnýsast inn um morgundagsins gættir.
Þó ráða megi af eyktum eitt og tvennt,
er ævisagan jafnan flóknir þættir.
Mitt hugboð er, þó annað allt um svíki,
að engin skapist fegri bandaríki.

Og Eatons veldið víkkar enn í dag;
það vex í náð hjá bæði Guði og mönnum.
Um hlið þess ómar íslenzkt brúðarlag
sem ávarpstákn frá berjalaut og hvönnum.
Þar sverja tryggð í örmum vors og vona
einn vaskur Breti og íslenzk hefðarkona.

Af konuvali halinn marka má;
hans mikilleiki er jafnan þar við bundinn.
Á þessum stað má það á öllu sjá,
að þóknan Drottins blessar helgan lundinn.

Og hér skal Signý lengi ríkjum ráða
með rausn, og hvetja fram til stórra dáða.

Við Eatons hirð skal dansað dátt í kvöld
og drukkið fast að stólkonunga hætti.
Og hér skal vorið vefa fegurst tjöld
og vetur sína mestu hrikadrætti.
Við þessa hirð skal eilíft allt það standa,
er ófst úr kostum tveggja þjóða og landa.

## BRÚÐKAUPSLJÓÐ

Grettir Leó Jóhannsson og Lalah Dowers,
16. maí 1933.

Til sambands um eilífð alda
tvö ungmenni stofna í dag.
Í andblæ frá álfum tvennum
ómar þeim brúðkaupslag.
Hvert ár verði ástum faðmað,
hvert afrek með víkings brag!

Í gróandans vona veldi
skal vaxtað hvert máttar orð,
þar reisa sér himinhallir
hver halur og seimaskorð.
Í dag tengist ættstofn Íslands
við ungmey af Lincolns storð.

Í samræmi ljóss og lita
fær lífið sinn yndis blæ.
Við samhljóman tveggja sálna

rís sól yfir hverjum bæ.
Þar vaxa' upp í öflgar eikur
hin ungbornu manndóms fræ.

Þó marglyndur mannlífs Ægir
oft misskipti pundi hags,
á ástin sér hjartræn óðul
frá austri til sólarlags.
Úr hugástum byggjast borgir
og bær til hins nýja dags.

## MATTHÍAS JOCHUMSSON

(Aldarminning.)

Ó, guð vors lands, hve heitt skal þakka þér
hvern þroskadraum, er andi skáldsins sér
og birtist oss í litum ljóðs og hljóms,
sem líf í auga nýútsprungins blóms;
hvert vængjað orð, er lyfti mold í mann
og morgun inn í kvöldvökuna spann.

Drag skó af fótum, hér er heilög jörð!
Nú hlustar Ísland sjálft á messugjörð
síns æðsta prests, sem orti ljóðsins ljóð,
er lýsir fram í aldir heilli þjóð;
þess skálds, er gegnum málsins tröllatök
fékk túlkað lífsins þungskildustu rök.

Af himinfjöllum daggir drjúpa enn;
til dáða fæðast röskir vökumenn,
er klífa bergsins bratta eins og fyr
og braglist vorri helga nýjar dyr.

En Matthías er mestur enn af þeim,
sem munda spjót í andans regingeim.

Sjá dagur rennur, — himins opnast hlið!
Þó hverfi öld, er bjart um skáldsins svið;
þess sigurglæsta morgunhetju mynd
er meitluð inn í sérhvern fjallatind.
Á enni barns sem aldurhnigins brá
má ímynd stærsta kraftaskáldsins sjá.

Komst nokkur hærra í helgri andagift
og hafði þyngri Grettistökum lyft
en hann, sem geymdi Ísland allt í sál,
þess ást og fögnuð, sorg og Hávamál?
Hans breiða anda yngir sérhver öld,
þó aðra feli gleymskuslæða köld.

## TIL EINARS SKÁLDS BENEDIKTSSONAR

(Winnipeg, 1921.)

Djúpspaki Völundur voldugra ljóða,
vordrauma spámaður kynstofnsins góða!
Þú hefir leitað um ljósbrimasæinn
og leitt yfir þjóðina upprisudaginn.

Stundum var fámennt í fylkingum þínum,
fjöldinn á reiki í skoðunum sínum.
En þá varstu' í orði og atgervi stærstur, —
íslenzki frumtónninn dýpstur og hæstur.

Ungur þú lagðist í andlega víking,
sem útvörður stóðst gagnvart þjóðflokksins sýking,
með arnarins flugmagn og áræði ljónsins, —
með íslenzkan þjóðblæ í sveiflumýkt tónsins.

Fæddur með einkennum umbótamannsins, —
áformin sólvígð í þjónustu landsins.
Hver óður var lífgróður þjóðinni þinni,
sem þroskast í ófæddu barnanna minni.

Hver vogaði frekar í fjallgöngum andans
og fylgdi jafn djarflega merkisstöng landans?
Með ljóðbrimsins þunga og þrumuguðs máttinn
þú hefir sigurvígt lagið og háttinn.

Nú bíða þín austanhafs ljómandi lendur
með laufgaðar merkur og fangvíðar strendur. —
Þín ævi var sigur í örlagastraumnum, —
með Ísland í fyrsta og síðasta draumnum.

## TIL ÞORSTEINS ERLINGSSONAR, FIMMTUGS

Hróðrar-jöfur, heill sé þér,
haltu völdum lengi.
Margt að syngja eftir er
á Íslands hörpustrengi.

Ennþá berðu heilan hjör
frá hildarleikum skæðum.
Ódauðleikans afl og fjör
er í þínum kvæðum.

Eg hefi margoft af þeim glaðst
örðugan lífs við róður.
Þökk fyrir allt, sem um þú kvaðst
okkar gömlu móður.

Þeim fannst sjaldan leiðin löng,
ljóðin þín er sungu.
Mýkra enginn áður söng
á okkar feðratungu.

Syngdu vinur, syngdu skært,
syngdu hátt og lengi.
Þú hefur ekki list þá lært
að leika á falska strengi.

## VIÐ ÍSLANDSFÖR JÓNASAR ÞÓRÐARSONAR FRÁ LJÓSALANDI Í VOPNAFIRÐI, 2. apríl 1934

Heilsaðu fram til heiða
og Hofsárdalnum líka.
Þó svipfagurt víða væri,
eg vissi' eigi útsýn slíka,
við margþætta minninga hyggð
og sól yfir Brodd-Helga byggð.

Heilsaðu Íslands æsku,
er eldinn skal sækja' og geyma.
Seg henni' að vestræn vitund
vermist við logann heima
— þó fleira sé glatað en grætt —
og spásögn af íslenzkri ætt.

Heilsaðu ljósa landi —
landinu óðs og vona —
þar sem að dirfskan drottnar

í djúplyndi spakra sona
og hólmgöngueðlið á enn
sín ítök og mannaða menn.

## NÆTURVÍG

Dóttir Njörva' í drunga-skapi
dökkar lætur síga brýn. —
Stormaflog í fjöllum hvín.
Standa' á öndu urð og stapi
öldu-drottins klædd í lín.

Örlagabjörgum undir köldum
óspart gerast næturvíg.
Flest eru bjargráð fyrir gýg.
Grimmdarhljóð frá Gýmis-öldum
glymja vítt um foldarstíg.

Seglakuggur siglubrotinn
sífellt þokast ströndu nær.
Framan og aftan yfir þvær.
Skipshöfn öll að orku þrotin,
engu lengur stjórnað fær.

Boðar rísa hærra' og hærra,
hamast litla kuggnum á. —
Augnablik eru eftir fá.
Ólag nýtt og annað stærra
eftir skilur fleka smá.

Slotar aðeins ögn í bili. —
Urðarmáni rofs um skjá
lítur sævot líkin á,
rekin upp úr hrannarhyli,
hrufluð, þrútin, grett á brá.

Brakar hátt í bjargaþili,
bylgjuföll jafn hvelfd og há
fyrri ekkert auga sá.
Heillast lík af hranna-spili
og hverfa' á ný í myrkan sjá!

## Í ANNARRA SPOR
eftir Edgar A. Guest.

Ég nam af öðrum aðferð þá,
hve örðugleika sigra má,
því aðrir báru á undan mér
það ok, er nú ég sjálfur ber.
Í mínum sporum margur grét, —
frá marki þó ei vék um fet.
Nú kallar á mig innri þörf
að inna' af hendi sömu störf.

Mér fannst ég gæti siglt minn sjá
og sviptibyljum komizt hjá, —
að vílsins þungi, harmsins húm
í hug mér aldrei fengi rúm. —
Það sló mig svo, er sleip varð leið
og slys við næsta fótmál beið,
að enginn hefði um æviveg
slík ósköp reynt og sjálfur ég.

Öll kvörtun þyngri kvöl mér bjó,
og kveinið út í geiminn dó.
Þá mælti rödd í eyra inn:
„Slíkt ok bar sérhver granni þinn,
því aðrir grétu, er gladdist þú,
þótt grátsins fiðla hljóð sé nú. —
Menn sama vaskleiks vænta' af þér,
er vængmyrk sorg að dyrum ber".

En þetta löngu liðið er,
og lífið síðar kenndi mér:
Að tárabeiskja tómleikans
er tannfé sérhvers dauðlegs manns.
Það sigldi enginn ævisjá,
er öllum boðum stýrði hjá.
Því vil ég sýna í sóknum enn
hið sama þrek og aðrir menn.

## SKÓBURSTARINN

eftir George S. Hellman.

Hví býð eg, að hann fægi mína
    forarskó, —
við fót minn hneigi höfuð sitt
    í helgiró?

Hve hreinsa skuli af mér aur
    ei hann veit, —
því för mín lá um fylgsni, sem hann
    fyrirleit.

Hans andlit speglar ítalskt bros —
    æsku hyr.
Mitt bros í húmi lífið lét
    löngu fyr.

## SÝN — —

Jessie B. Rittenhouse.

Eg leitaði fjallsins að fegurð
og fann þar hinn mædda lýð
á smábýlum dreift um dalinn
við daganna önn og stríð.

Að morgninum dalinn dylja
draumspunnin, ljósgrá ský, —
sem hlíðanna hæstu tindar
séu' hraunmöttul færðir í.

Að kveldinu mistur-móða
þér mætir við dalsins hlið,
er vefst líkast klút um klettinn,
en kemur þó aldrei við.

En fjallanna töfrafegurð
var fólkinu lokuð bók,
og sýn þeirra sýknt og heilagt
á sinnuleysi þess jók.

## GUÐRÚN Í BIRKINESI

Erfðatáp frá heimahögum
hátt ber enn í landans sögum.
Vestanmegin Atlants ála
Íslands heilladísir mála
kyngidráttum ljóss og lita
landnámsstyrk og fórnarhita.

Víkingslund og móðurmildi
móta norrænt þroskagildi;
merla svipi sólarlagsins,
sjást í fylling morgundagsins,
greiða vegferð góðra manna
gegnum hryðjur stríðs og anna.

Enginn jarðlífs erfðasjóður
er til jafns við góða móður,
örmum kærleiks allt hún vefur,
ekkert barn um vexti krefur,
greiðir iðgjöld ævibylja
alla tíð af fúsum vilja.

Iðjuglöð til ævislita,
engan bróður mátti vita
særðan fram með förnum vegi, —
fataðist þá líknin eigi.
Hún var slík í hárri elli,
hetja prúð og sterk á svelli.

Fróð um hagi heimaþjóðar
henni fylgja forspár góðar
yfir djúpin draumabláu.
Drottinholl í stóru og smáu.
Inn í hinztu óskir þínar
Ísland fléttar kveðjur sínar.

## WOODROW WILSON

Eftir Worrel Kirkwood.

Þeir hæddu drauma þessa mikla manns, —
ei megnar slíkt að hefta frjálsan anda
    né buga bjarta sál.
Er fatast sýn, mun sigurtraustið hans
vorn seiða hug og þjóðir leysa úr vanda
    og flytja frelsismál.

Af ótta sál hans aldrei kenndi til
né efa þeim, er hugsýn margra villir
    og felur sannleiks sól.
Hann vígðist ungur sumri og sólar-yl —
varð sjálfur blys, er framtíð alla gyllir,
    en öfund bjó hans ból.

Til eigin dýrðar aldrei steig hann spor,
en andinn frjáls til himinlinda sótti
    sinn djarfa draumlífs eld.
Hann leit í öllu guðlegt gróðrar vor —

í geislafylgd með sigurvissu þrótti,
stóð hreinn við hinzta kveld.

Og Guð um allar aldir heldur vörð,
þótt öfundsmenn í bræði sinni reiði
að spámanns hjarta hjör.
Hvert hyggjuflug, sem fegrar vora jörð,
er fræ af nýjum, rótarstyrkum meiði
í sókn og sigurför.

Frá leiði kappans óm að eyrum ber, —
í undirvitund fólksins strengir hrærast
við dagljóst draumagull.
Til starfs skal kvaddur dáðadrengur hver.
Sjá daginn mikla hátt á loftið færast
og signa sólarfull.

## HARMSÝN

(Helen Welshemer.)

Þeir ganga í hópum hér um þessa storð,
er handtak fá ei neitt við iðju dags.
Þeir gömlu, stúrnir, eiga ei lengur orð,
er inntu mesta fórn til þjóðarhags.
En æskan vondauf veit ei handaskil.
Í vastri þess að hafast ekki að
hún leitar út um hæðir, hóla, gil,
og hvergi finnur tryggan næturstað.

*

Þú sagðir, Drottinn, oss það áður fyr,
að öllum þjónum bæri sanngjörn laun.
Nú híma börn þín hungruð fram við dyr
með hræðslusvip og blása þar í kaun.
Þau leita brauðs, en úrlausn enga sjá,
þó áður rigndi Manna himni frá.

## VESTIGIA

eftir Bliss Carman.

Í Guðsleit afturelding frá
eg ei hann fann. — Þar braut mín lá
um lækjarbakka, leiti hljóð, —
er lilja brann í sólarglóð, —
hans spor í mjúkri mold eg sá.

Þá barst mér að um óraleið,
sem óvænt boð frá húmsins meið,
þar þröstur yzt í auðnarmó
söng einn í kvöldsins helgi-ró, —
Guðs rödd í ljúfum söngvaseið.

Er hrifin dáði hugsun hver,
hve himinn víða brosir þér; —
í blæ, sem tæpast bærði grein
við bakkann, þar sem sólin skein,
Guðs hönd strauk mjúkt um höfuð mér.

Er undir húm eg heimveg tróð,
með heilabrot um fundinn sjóð
og allt hið leynda lífi manns, —
ég ljómann sá af kyrtli hans
í sólarlagsins síðstu glóð.

Mér brann í huga heilagt bál, —
mitt hjartans dýpsta, eina mál,
að skapa Fegurð frelsismátt; —
við feginsblik úr himinátt
minn Guð eg fann í sjálfs míns sál.

## HJARTA MITT OG HARPA

eftir Thomas Moore.

Þú veizt, að lítinn á ég auð,
en allt þér gefa' eg vil.
Mín hörpuljóð og hjartað með,
ég hefi' ei annað til!

Mín strengjaljóð, þótt veik sé víst,
ég vel samt handa þér,
og hjartað, sem af ástaróð
og eldi þrungið er.

Þótt hörpuljóðin litlu mín
ei lýsi himininn,
þau varpa máske björtum blæ
á brúnahimin þinn.

Og skyldu sorgir sverfa að
og sækja heim til þín,
þá vildi' eg gæti verndað þig
hin veiku söngljóð mín.

Þú veizt, að lítinn á ég auð,
en allt þér gefa' eg vil.
Mín hörpuljóð og hjartað með,
ég hefi' ei annað til!

## SILFURBRÚÐKAUP PÁLS S. PÁLSSONAR SKÁLDS OG FRÚ ÓLÍNU EGILSDÓTTUR,

15. júní 1935.

Engan vanda veit eg meiri
vanda þeim að hugsa í ljóði;
reyna að meitla úr málsins bergi
mynd, sem yrði nokkrum gróði;
eggja fram úr orðsins stáli
óð, sem hæfði Línu og Páli.

Enga gæfu getur meiri
gæfu lífs að njóta saman;
sjá í ljóðs og lita myndum
langrar ævi ferðagaman.
Sigurglöð í sátt við alla
sjá að lokum tjaldið falla.

Engir draumar dýpra standa
draumum þeim, sem ófust heima;
engu því, sem ættjörð prýddi,
ykkur reyndist kleift að gleyma;
því varð ævi ykkar beggja
Íslandslýsing hjartna tveggja.

## KRISTJÁN ALBERT OG FRÚ

(Gullbrúðkaupsvísur.)

Þið byggðuð í vortrúnni bústað þann,
er bylurinn aldrei kaldan fann,
því yl-hjörtun daglangt dreymdi
drauma, sem enginn gleymdi.

Og því er svo heiðbjart og hlýtt í kveld,
að hjörtun geyma þann sama eld,
er ástin í æsku glæddi,
þótt umhverfis stormur næddi.

Að hafa jafn sólauðugt sjónarmið
og sumar í hjörtunum, líkt og þið,
er samlífsins sigurmerki, —
sælan í orði og verki.

Að finna' ykkur ennþá jafn ung í hug,
með útsýni stærra og hærra flug,
er vinunum vordags gróði,
vermdur í hjartaljóði.

## SIGVALDI NORDAL ÁTTRÆÐUR

Sá dagaði' ei uppi á öræfum lífs,
sem eignaðist Nordal að vin,
Því Húnaþingseðlið er örlátt á margt
og ekki neitt saltstólpakyn.

Þó frostbitinn stundum hann ferðaðist oft
og fengi' ekki verkalaun tvenn,
þá var honum gróði að gleðja hvert barn,
og hann gerir það fagnandi enn.

Og enn er hann fremstur í fjörkálfasveit,
rétt fertugur tvisvar í dag,
og tekur með hlýleik í höndina á þeim,
sem hirða um vísu og lag.

Þó leið sé í fangið og lýjandi oft,
og lífshöfin brimótt og ólm,
þá ferðast hann öruggur eins fyrir því
og við ellina gengur á hólm.

## SILFURBRÚÐKAUP SVEINS E. BJÖRNSSONAR LÆKNIS OG FRÚ MARÍU BJÖRNSSON.

Árborg, 10. ágúst 1941.

Í fálæti dimmgræns dalsins
bjó draumlyndur, hljóður sveinn,
er leitaði að ám og lömbum
og lék sér við ekki neinn,
en hlustaði á seiðmagn Selár,*)
og sat þar á kveldin einn.

Á ævinnar æskumorgni
með útþrá hins skyggna manns
hann leitaði landa nýrra
við ljóðblys síns heimaranns,
en konan varð mesta kvæðið,
er kvaðst inn í vitund hans.

*) Selá í Vopnafirði.

Í útlegð hann ennþá brýnir
hin íslenzku tungusverð;
hans ljóð verða öll að lífi
í leitandans heimskautsferð.
Ég veit það, að Sveinn fær síðast
sitt sveinsbréf í ljóðagerð.

## DÓMARINN

Þú dæmir djarft og hart
og dæmir helzt til margt,
en þér er reyndar farið eins og flestum.
Í dag við dómstólinn
þú dæmdir bróður þinn,
en ert þó sjálfur búinn sömu brestum.

*

## ÚR BRÉFI

Þyngst mér varð um þennan óð, —
þú ert horfin sýnum.
Æskudrauma dauðablóð
drýpur úr penna mínum.

*

## Á LEIÐI GÓÐS DRENGS

Yfir þér er enginn krans
og illa hlaðið leiði,
því fyrir heill þíns föðurlands
féllstu á bezta skeiði.

*

## STAKA

Dæmdu' ekki skýið, er skyggði á sól,
í skugga síns lögmáls það birtuna fól.
Er feykir því aftur hinn frelsandi blær,
þú fyrst getur metið, hvað sólin er skær.

## AÐ STEFNA HEIM

eftir Edgar A. Guest.

Að stefna heim er hollast þér, —
þótt hafi för í skauti sér
margt dýrðarblik um sveit og sæ,
er sólskin mest á eigin bæ.
Mörg ódreymd fegurð oft þín beið
á útsigling um Drafnar skeið.
En eftir ferðaflug og sveim
þú fagnar mest að koma heim.

Með brjóstið fullt af fararþrá
þig fýsir allan heim að sjá
og finnst það vera fjarri sann,
að ferðir þreyti nokkurn mann.
En eftir langa útivist —
þótt undralöndin töfri fyrst —
er heimþrá brennd í huga þinn —
og heima eini vinurinn!

Þú syngur fjörug ferðaljóð
um fjallsins tign í kvöldsins glóð, —
því víða hillir hafs við rönd
í hugsýn marga furðuströnd.
En áður langt um liðið er,
deyr leiðslan burt úr sálu þér,
og yfir djúpan öldugeim
hvert áform stefnir þráðbeint heim.

Mörg för um akra ókunns lands
er ævigróði leitandans; —
því eins um fjöll og unnir blá
má alltaf nýja fegurð sjá.
En einu gildir, allt um það
er ævin tengd við vissan stað
og bezt það fley um brima-geim,
sem ber þig loksins aftur heim!

## SIGRÍÐUR SÓLRÚN SIGFÚSSON

(24. júní 1859 — 24. janúar 1936.)

Hyggjuglæsta gáfukona,
góð var hvíldin þér.
Bitur þjáning þungra nátta
þreytir hvern sem er.
Raunabót, að samt um síðir
sól að austan fer.

Fas þitt allt og málfars mildi
miðlaði sjúkum fró.
Söngvinn strengur Íslands ættar
í þér grét og hló.
Með ást, er engum gleymist,
inn í lífið dó.

Þreytta móðir, vestrænt vakir
vor hjá þinni gröf.
Tveggja heima hugir flétta
heilög minnisströf.
Ástarkveðjur að þér streyma
austan yfir höf.

## KRISTJÁN K. DAVÍÐSSON, HERMAÐUR

Er sumardísin signir lönd
og sólin skóginn gyllir,
þá hefta andann engin bönd
og ekkert sjónir villir.

Þá fannst þér opið sérhvert sund
og sérhver teigur fagur.
Því innst í þinni æskulund
var aðeins sumardagur.

En dauðinn kom með berserks brag
og brandinn hvassa hristi. —
Á sömu stund varð sólarlag,
og sveinninn taksins missti.

Og sorgin fór um fold og sjá,
og flest hún lagði í eyði. —
Þá birtust geislar Guði frá
og gylltu hermanns-leiði.

## JÓN THORDARSON, KAUPMAÐUR

(undir nafni ekkjunnar).

Hlusta' eg á eigin hjartaslátt
með harmi feikna sárum.
Mér finnst eins og gráti hafið hátt
og himinninn rigni tárum.

Hjartans vinur, þú varst mér allt
vetrar og sumars yndi.
Án þín var lífið autt og kalt
sem einstæðingsblóm í vindi.

Gullnar vonir, sem geymi ég,
græddirðu' í mínu hjarta.
Ljósgeisla yfir liðinn veg
lagðirðu marga' og bjarta.

Sofðu svo æviyndið mitt,
við ættlandsins hjartarætur.
Grátandi vígslugullið þitt
geymi' eg til hinztu nætur.

## MARKÚS JÓNSSON OG MARGRÉT JÓNSDÓTTIR BALDUR, MAN.

(Fimmtíu og fimm ára brúðkaupsafmæli.)

Að hafa verndað vorsins skjöld
í vetur fimm og hálfa öld,
það gera aðeins gæfumenn,
sem geyma eldinn helga enn,
er brenndi inn í ævisvip
hvert íslenzkt ljóð sem minjagrip.

Að hafa meir en hálfa öld
í heimi ástar málað tjöld
og glaðst í sýn við geislann þar,
sem Gunnlaugs skikkjan rakin var,
er ævisigur útlendings,
sem á nú skammt til hinzta þings.

## DRÁPAN

(Þegar K. N. varð sjötugur.)

Með smávegis áhættu ekki það telst
og ef til vill steindrepur mig
að koma til hólmgöngu hingað í kveld
til heiðurs við skáld eins og þig.
Í fjallgöngum heima ég fáraðist ei,
þó fengi ég dálítinn sting.
En þar kom eg aldrei á ævinni samt
á annað eins skáldhrafna þing.

Á kvöldvökum döprum ég kvæðin þín las,
og kímnin mér svölunar fékk.
Mér fannst, að þér væri ekki vorkunn í því
að vaxa' upp í stórskálda bekk.
Ég styrktist í trú á hin innblásnu öfl,
að allt nema ljóðið sé feigt;
að skáldið sé hásæti himnanna frá,
þó haldið sé jarðneskt og veikt.

Af hávirðing þinni ég hreyki mér ei,
en hjarta mitt klökknar við það
hve fjarvera ýmsra er átakanleg
á öðrum eins tíma og stað.
Ég veit það, að Franklin*) á annríki í
við uppgröft úr sendinni fönn.
En gat þá ei Hermann**) haft rænu og ráð
að rétta þér dropa með hvönn?

Oss ofbýður stundum hve andinn er frjór,
en áfellumst kveðskapar logn.
Þeir innblásnu syngja um ástir og vín,
en aðrir um kvarnir og hrogn.
Þó vísindin hafi' ekki skilgreint það skýrt,
hvort skáld séu mótuð í kross,
þá hefur þó kvenþjóðin kveðið upp dóm,
að Ká-inn sé mestur af oss.

Á Valhallarþakinu bítur hún barr
og bíður þín fagnandi enn
geitin, sem úthellti fjörvökva fyrst
í framliðna skylmingamenn.

---

*) Franklin D. Roosevelt, Bandaríkjaforseti.
**) Hermann Jónasson, forsætisráðherra.

En þrátt fyrir andlega þjálfun með oss
og þjóðræknis heilagan eld,
þá halda samt ýmsir, þó hjákátlegt sé,
að Heiðrún sé nærri því geld.

## ÍSLAND

eftir Olav Redal.

Eitt land eg veit, þars ljómar sól um nætur,
með ljósahjálm um strönd og fjöll og mar —
þar sem að frelsið festi traustar rætur
og fornhelg menning ávöxt dýrstan bar.

Eitt land eg veit, er sögusvipinn geymir
frá sækonunga löngu horfnri tíð, —
um æðar fólksins aðalsblóðið streymir —
það óttast hvorki lífs nú dauðastríð.

Eitt land eg veit, hvar auður engan þyngir
né eitrað getur helgan þjóðlífs merg,
en sögubjarminn fólkið enduryngir
við Edduljóðsins margvígt stuðlaberg.

Eitt land eg veit, sem geymir hugsjón háa
og heiðursnafnið metur dýrstan arf.
Þar dvelur þjóð, sem lýtur ei því lága,
en lifir frjáls við göfugt manndómsstarf.

Lát þetta fólk, sem eldinn aldrei faldi
og aldrei skar á nokkur vinabönd,
oss greiða veg frá andans undanhaldi
við árdagsblik um gjörvöll Norðurlönd.

*

Höfundur kvæðis þessa mun hafa dvalið á Íslandi um hríð fyrir nokkrum árum, en er nú, að því er ég bezt veit, búsettur í Fargo, N.-Dakota.

## EINHVERS VERT

eftir Edgar A. Guest.

Já, þetta allt er einhvers vert:
að eygja bros við fótmál hvert
og halda striki stefnuhár,
þótt stritsins daggir vökvi brár —
að ganga prúður prjál á snið,
en planta rósir heima við
og reyna að skelfa skuggafans
frá skýlisdyrum öreigans.

Þú þarft ei fremd né frægðarvald —
og frægðin heimtar stimpilgjald —
og hennar án jafn auðvelt er
við iðju dags að skemmta sér.
Og hver sem helzt er köllun þín,
þá krefur lífið iðgjöld sín:
að trúr þú sért við eðli og ætt
og aldrei rjúfir gerða sætt.

Ef ást til flaggs og föðurlands
er fyrsta kennd þíns innra manns
og fylgdarsveitin finnur hver,
að fyrst og bezt hún treysti þér, —
ef heimilið á huga þinn,
mun hryggðin ekki voga inn —
ef brosið eykst við ómak hvert,
er ævistarfið nokkurs vert!

## EFTIR FÁRVIÐRI

Yfir steini stendur hvergi
steinn til lands né fram með eyjum.
Finnst mér eins og lemstrað liggi
lífið allt í dauðateygjum.

*

## HRYGGÐARMYND

Í blindni hann gekk sinn vígsluveg
sem vígslaður, þvældur hestur.
Er nokkur andstyggð eins ömurleg
og íslenzkur þokuprestur?

## GUÐJÓN GUÐMUNDSSON, BÚNAÐARFÉLAGSRÁÐUNAUTUR

Íslenzkur varstu, einbeittur þinn dugur,
ólgandi starfsblóð svall í þínu hjarta.
Íslenzkur var þinn orkufulli hugur,
öruggur gekkstu sigurvegu bjarta.
Skínandi trú á landsins veg og veldi
veginn þér lýsti fram að hinzta kveldi.

Hart er að missa menn á bezta skeiði,
menn, sem að höfðu kraftinn til að berjast.
Sárt er að hlaða sonum ungum leiði
sennunni í, er fóstran þarf að verjast.
Nornir, hvers eigum allir vér að gjalda?
Ættjörðin þurfti' á liði sínu' að halda.

Þökk fyrir starfið, margir sárt þín sakna,
svo var um hvern, er reyndist góður drengur.
Eigi vor þjóð úr roti sínu' að rakna

rauntryggra sona njóta þyrfti' hún lengur.
Þökk fyrir sporin, þau í heiðri geymast,
þau vissu fram og skulu aldrei gleymast.

## VALDÍS SÍMONARSON,

fædd 3. okt. 1834, dáin 25. marz 1923.

Með heimalands blikið á brá
byggðir þú, tigin og há,
óðal úr óræktar kjarri,
íslenzku moldinni fjarri.

Þín ævi var ljúf eins og ljóð —
lögð inn í vestrænan sjóð,
fegruð við fjölgandi árin,
frumbyggja sporin og tárin.

Á æskuna ævi þín jók, —
hvert ár varð þér dýrindisbók,
helguð við ást þinna anna
og aðdáun samferðamanna.

Tvinnuð úr íslenzkri ást
engum þín vinfesti brást.
Hlýtt var um hjartalags strenginn,
handtak þitt misskildi enginn.

Þótt heimilið hátt væri og glæst,
var hjarta þíns landnám þó stærst.
Því hnípa nú margir svo hljóðir,
er haustar um vestrænar slóðir.

STEFÁN THORSON,

fæddur 12. maí 1858; dáinn 15. marz 1934.

Að vitsmunum helztu mönnum með,
en misskilinn eins og fleiri.
Sem Hofsjökull ytra, með Heklu geð
og hetjuþrótt flestum meiri.
Í vöggugjöf honum sú list var léð
að leggja með andans geiri.

Í fylkingum jafnan fremstur stóð,
er fávizkan hleypti brúnum.
Úr vordraumum sérhvert vígi hlóð,
þó veturinn sækti að túnum.
Í hjartanu geymdi heilan sjóð
af heilsteyptum Ásarúnum.

Hann hóf sig á vængjum klett af klett,
er kotmennið tók að svíma.
Hans tápi voru' ekki takmörk sett
við torráðin mál að glíma;
var trúaður meir á Rómarétt
en ritning hins nýja tíma.

## MINNING SKÁLDSINS

(Við afhjúpun K. N. minnisvarðans.)

Menn streyma í hópum hingað þenna dag,
því hérna blundar skáld og góður maður,
er spann úr Íslandseðli aldýrt lag
í útlegðinni viðkvæmur og glaður.
Og fjöruborð hann drakk á sorgarsæinn, —
að sama skapi hellti ljósi í bæinn.

Um lífið kvað hann lofsöng fram á haust,
því ljóðið var hans trú og innri maður.
En nú er knörrinn kominn upp í naust
og kímniskáldsins varði afhjúpaður;
hann myndi brosa, ef mætti sjá og heyra,
hve moldin stækkar dáið skáld og fleira.

Við bjarmann út frá Eyjafjarðarsól
spannst æviþáttur skálds í tvennum álfum,
og langtum ofar Súlna*) sjónarhól
hann söng í ljóðmál gullið í sér sjálfum,
því stakan var hans ástmey, eiginkona,
og endurfæðing margra slökktra vona.

---

*) Við Eyjafjörð gnæfa háfjöll, er Súlur nefnast.

## ÞORLEIFUR OG ELÍNBORG HALLGRÍMSSON

(Silfurbrúðkaupsvísur; Riverton, 18. ágúst 1941.)

Á vegum drottins ganga góðir menn,
og góðar konur vitanlega ei síður;
það reyndist haldgott, reynist líka enn
við róðra lífs, er fram á daginn líður,
að hafa iðkað ástarstjörnufræði
frá æskutíð til kvelds og morgna bæði.

Um Þorlák helga' er þunnskipað í kveld,
en þeim mun meira líf á vesturslóðum,
því hér við þenna aldarfjórðungs eld,
sem Ísland veitti kanadiskum hlóðum,
skal dýrkun Þorláks eftir athöfn þessa
fá endurskírn og nefnast Þorleifs messa.

Við ykkar hirð var gott að gleðja sig,
hvort gæftir voru eða rok um sæinn;
eg veit það kætti marga fleiri en mig
hve mildi hjartans lýsti upp allan bæinn,
hve elskhuginn með Elínborgu í stafni
var alltaf viss um höfn í drottins nafni.

## SILFURBRÚÐKAUPS VÍSUR

til Þórs Lífman, sveitaroddvita í Bifröst, og frú Margrétar Lífman, Árborg, 24. apríl 1938.

Við Miðgarðsorminn eins og Ása-Þór
er engu jarðarbarni hent að glíma.
En nafni hans er orðinn undrastór
og aðsópsmikill bæði í rúmi og tíma.
Hann leysir Gordions knúta sveitar sinnar
með svitadropum kjarks og djúphyggninnar.

Og margt er líkt með þessum Þórum tveim;
í þrekraun neinni hvorugur var væginn.
Þeir börðu á tröllum út um allan heim,
þó annar drykki fjöruborð á sæinn,
en hinn, að okkar Arinbjarnar*) hætti,
ins æðsta hófs á vegferð lífsins gætti.

---

*) Arinbjörn stórtemplar.

Með hamri Þórs og hugarstæltri sigð
er höggvið títt og skarpt til beggja handa.
Hin nýja Þórsmörk, þessi fagra byggð,
hún þroskast bezt í skjóli víkingsanda.
Og það er meira en algengt æfintýri
að eiga Þór og Margréti við stýri.

## VIÐ SILFURBRÚÐKAUP G. J. ÓLESON LÖGREGLUDÓMARA OG FRÚAR HANS,

Glenboro, 10. febrúar 1936.

Þó fimbulvetur fari um lönd,
ei frjósa íslenzk hjónabönd;
því dýpst í þeirra hjartnahyl
er heilög kaldavermsla til,
sem kyngimagn í barmi ber
og bræðir klakann út frá sér.

Og hér er eitt slíkt hjónaband,
sem hefir numið blómgað land
í vinahjörtum út um allt
og öllum rétta tíund galt.
Við fegurð alls, sem íslenzkt var,
er ævitryggðum haldið þar.

Þó fámenn oft sú fylking sé,
sem forustunni helgar vé,
er þakkarvert að vita um þá,

sem veðrin ekki bita á
og líta glaðir ljósi mót,
þó leiðin sé um eggjagrjót.

Við aldarfjórðungs áning sézt,
að enn sem fyrri dugði bezt
hinn vígði þáttur ættararfs
í öllum myndum göfugs starfs;
að norrænt táp ei tapar sér
unz tjölduð hinzta búðin er.

## MORGUNÞOKA

Líttu' á hve ljósgeisla brimið
um lognþoku hjúpinn fer gegn,
svo umhverfið alt saman verður
áþekkt og gulldropa regn.

*

## ÁSTA

Ást þína veittu mér alla —
ekkert nægir hálft!
Lífið er alsnautt án ástar,
því ástin er lífið sjálft.

*

## GÖMUL KONA

Hún var fyrrum falleg björk,
frjáls sem æskutrúin.
Nú er hún eins og eyðimörk
öllum gróðri rúin.

*

## VIÐ LESTUR ÞRIÐJU BÓKARINNAR

Hugsun möðkuð, máttarvana, —
mælgi nóg.
Já og amen játninganna —
jórturró!
Afturför í öllu nema einu þó,
stefnuleysið — status quo.

*

## FUNDURINN

Heimskan hráflökuð,
hræsnin órökuð.
Enskan afbökuð,
íslenzkan sárþjökuð.

## FRÚ HALLFRÍÐUR SIGURÐSSON

(ort að tilmælum æskuvina hinnar látnu.)

Vináttan á sér víðlent þroskaríki;
verður þó stærst í góðrar konu líki —
tendrar sín blys um fjallveg jafnt og fjörðu,
festir í skorður ríki guðs á jörðu.

Holt er það sál að muna æskuyndi,
íslenzkan bæ og glömpum laugað strindi.
Vegmótin síðstu málast margfalt skærra, —
minningahafið einum dropa stærra.

Kveðjustund vina líkist tónatrega,
titrandi — sár, en mýkist æfinlega.
Náttmálaþoku ævisviða' og sorgar
svefninn að lokum fegins hendi borgar.

## JÓN FRÁ HURÐARBAKI

Löngum stóð í stímabraki
sterki Jón frá Hurðarbaki;
gyrtur orðsins Ættartanga
aldrei lét á hlut sinn ganga,
sótti mál á svila hendur,
svíðings þótti marki brendur.

Jón var enginn meðalmaður,
minnisstæltur, þunggeðjaður;
sinnti lítt um svarablíðu,
sigurlaunin kaus í fríðu,
aldrei mátti orði halla,
óðar en varði bauð hann skalla.

Jón var heiðinn hörkumaður,
hataði tvísýnt kredduþvaður;
bæ sinn nefndi hann að Hofi,
hruni við þó lægi kofi;
eina bókin Bólu-Hjálmar,
bannaðir allir kristnisálmar.

Jóni gekk til hjarta háin,
hann var sár á grænu stráin;
þótti súrt að seðja prestinn,
sýnu verra að fóðra hestinn;
myndi heimta hann, ef kynni,
hagatoll í eilífðinni.

Milli gangna fé hans fennti —
fauskurinn að því gaman henti;
þóttist eiga hálfan heiminn —
hann var löngum krónudreyminn;
gamall svalt á Sífringshreppi —
seinna vitlaus dó á Kleppi.

## MÓÐURMINNING

## ÞURÍÐUR ÞORLEIFSDÓTTIR,

fædd á Mjóabóli í Laxárdal í Dalasýslu 25. október 1847.
Dáin í Riverton í Manitoba 27. apríl 1933.
(Tileinkað Þorleifi L. Hallgrímssyni,
einkasyni hinnar látnu.)

Sem ungbarn eg minntist hve mild hún var —
þó mörgu eg seinna gleymdi.
Eg veit, að hún ávallt vakti þar,
eg veit hana líka dreymdi.

Nú veit eg, að draumur um drenginn sinn
varð dásamleg júní vaka
í hennar augum, sem anda minn
átti til dýpstu raka.

Að hvílunni hinztu með henni' eg gekk —
í himnunum englar sungu. —
Frá móðurhjartanu mér hún fékk
merginn úr Íslands tungu.

Þó bresti strengir og bogni menn,
eg ber það í heitu sinni:
að við eigum sumar saman enn
við sólbros úr eilífðinni.

## SILFURBRÚÐKAUPSKVÆÐI

til Mr. og Mrs. Pétur Anderson.

Það reisa margir mikla höll
á mikillætis draumum;
hún gliðnar samt og urðast öll
í aldarfarsins straumum.
En þeir, sem byggja bæinn sinn
á bjargi hjartalagsins,
fá heimboð inn í himininn
og helgi morgundagsins.

Í fyrri daga Rússum réð,
um ramman fimbulvetur,
ein kempa víkings kyngi með
og kölluð „Mikli Pétur".
En hér er alveg ólíkt torg
og enginn byssu stingur,
því þessa prýðir Pétursborg
einn prúður Íslendingur.

Og því er bjart um þennan bæ,
að þar á vorið heima,
og ræktar ein þau auðnufræ,
sem ekki er hægt að gleyma.
Með blik frá Íslands ættarsvip
þar æskan festi rætur,
á lífið mestan minjagrip
og morgnar engar nætur.

Og konan — mannsins máttarhönd, —
er með hér enn í verki.
Í hennar eilífð eiga lönd
hinn örmagna' og sá sterki.
Nú drekkur lífið ljóssins skál
frá laufgra hlíða ennum,
sem berist til vor brúðarmál
frá Borgarfjörðum tvennum.*)

---

*) Pétur er Austur-Borgfirðingur, en frúin Suður-Borgfirðingur.

## SILFURBRÚÐKAUP

Guðmundar og Láru Árnason.

Nú faðmar vorið allt og eitt
með yndisleik og hlýju,
sem vermi sálu ljúflings-ljóð —
hvert laufblað fætt af nýju.
Þó margir bergi' af miði þeim,
sem myndar stundar gaman,
er meira vert að unnast enn
og eiga býli saman.

Og þeim, sem unnast alla tíð,
er auðnuvegur greiður, —
því yfir þeirra stríð og strit
rís stjörnugeimur heiður.
Og þar er aldrei þrotabú
né þurð á vinakynning, —
því brúðkaupslag var ævin öll
og æfintýra minning.

Til öfundar eg aldrei finn,
þó ýmsa betur dreymi.
— En metnað yfir ykkar sæmd
eg innst í hjarta geymi.
Og sá er maður meiri en eg —
við morgunrjóðar kinnar,
er þroskast inn í eilíft líf
í örmum frænku minnar.

## SUMARLOK

Hringt er til útfarar enn í dag, —
ymur í skóginum kulda-lag
hljómsvipað hafrænugjósti.
Mér finnst eins og harmský á himninum —
hálfgerður ótti yfir deginum
og borginni þungt fyrir brjósti.

Blikvitar sumarsins brenna út —
bjarkir með höfuðin niðurlút
titra við tónþungans brimið.
Mér finnst sem hver alda þess organ-hljóms
sé eilífðar-refsing hins mikla dóms,
er laufhjörtun frysti og limið.

Fólkið, er sárþráir alltaf yl,
áfangastöðvanna leitar til

með einhverjum óvissuhraða.
Tvísýnis-óttinn úr augum skín,
og ýmsir lesa þar forlög sín
í fjúkinu fölnaðra blaða.

Mér finnst eins og allt sé feigt í dag, —
sjálft framtíðarljóðið með dánarbrag
og veðráttan heimsendi heiti.
Haustloftsins ókennda ægi-far
knýr andvarp frá brjósti sléttunnar,
með líkfylgd á sérhverju leiti.

Stormhæðin eykst, — svo fer allt í hvarf,
en ævinnar fegursta sumarstarf
um ódreymdar aldir lifir.
Hver mörk virðist gráthnípin, myrk og tóm,
er moldin jarðar sín eigin blóm —
og svalvindið syngur yfir!

Sigðirnar blika við bleikan svörð —
nú berjast um völdin á himni og jörð
tvö megin-öfl mannlífsins strauma:
Haustjátning ísköld á aðra hlið —
og eilífðartrúin á sumarið
í starfsvöku dýrðlegra drauma.

